# Almanak

fyrir árið

# 1909

sem er fyrsta ár eftir hlaupár og þriðja ár eftir sumarauka,
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba

---

**Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.**

---

## FIMMTÁNDA ÁR.

---

WINNIPEG.
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
1908

Á þessu ári teljast liðin vera:

frá Krists fæðingu ........................ 1909 ár
frá sköpun veraldar ...................... 5876 ár
frá upphafi Íslandsbygðar ................ 1035 ár
frá siðabót Lúters ........................ 392 ár

Árið 1909 sunnudagsbókstafur C.
Gyllintal: 10.

Milli jóla og langaföstu eru 8 vikur og 2 dagar.

## Myrkvar.

Á árinu 1909 verða 4 myrkvar, 2 á sólu og 2 á tungli:

Almyrkvi á sólu 17. júní, sýnilegur hér í N.-Ameríku. 2. sólmyrkvi 12. des., sýnilegur hér. Hann nær ekki nema yfir helming af þvermáli sólarhvelsins.

1. Tunglmyrkvi 3. júní. Ekki sýnilegur hér. 2. Tunglmyrkvi 27. nóv. og er hér ekki sýnilegur.

## Árstíðirnar.

Vorið byrjar .................. 21. marz
Sumarið ...................... 21. júní
Haustið ...................... 23. september
Veturinn ..................... 22. desember

## Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

## Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru, — og hafa Gyðingar og Grikkir ef til vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vantnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum, hvað tímanum liði. Á Euglandi voru vaxkertaljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir — sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn **fyrsta** sunnudag eftir **fyrsta** tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þessu getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz, og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl, og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur páskadagur, nefnil. 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

---

## Pláneturnar.

VENUS er morgunstjarna til 28. Apríl, kveldstjarna til ársloka.
MARZ er morgunstjarna til 24. sept., síðan kveldstjarna.
JÚPITER er morgunstjarna til 25. febr., þá kveldstjarna til 18. sept, síðan morgunstjarna til ársloka.
SATURNUS er kveldstjarna til 3. apríl, morgunstjarna til 13. okt., kveldstjarna til ársloka.

---

## Páskadagur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1910 | 27. Marz | 1915 | 4. Apríl |
| 1911 | 16. Apríl | 1916 | 23. Apríl |
| 1912 | 7. Apríl | 1917 | 8. Apríl |
| 1913 | 23. Marz | 1918 | 31. Marz |
| 1914 | 12. Apríl | 1919 | 20. Apríl |
| | | 1920 | 4. Apríl |

---

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess,er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreyfingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínunni. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stuudum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínútur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði „meðal sóltími" aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árinu — á jafndægrum haust og vor — að „meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

---

## VEDURFRÆDI HERSCHEL'S,

er segir fyrir um veðrabreytingar, er verða með öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.

Tafla þessi, og athugasemdir þær, er fylgja henni, er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum á aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirra við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðurátta eða veðrabreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl. fyrsta kvartil, fult tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri: | Á vetri: |
|---|---|---|
| milli miðnætfis og kl. 2, verður | Fagurt veður | Frost, nema sunnanvindur sé. |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum | Snjór og stormasamt. |
| " " 4 " 6 " " | Regn | Regn. |
| " " 6 " 8 " " | Vindur og regn | Stormasamt. |
| " " 8 " 10 " " | Breytilegt veður | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór sé vindur af austri. |
| " " 10 " 12 " " | Tíðar skúrir | Kalt og hvast veður. |
| " " 12 " 2 e. m. | Mjög rigningasamt | Snjór og regn. |
| " " 2 " 4 " | Breytilegt veður | Fagurt veður og hlýtt. |
| " " 4 " 6 " | Fagurt veður | Fagurt veður. |
| " " 6 " 8 " | Fagurt, sé vindur af norðvestan | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n.a. |
| " " 8 " 10 " | Rigning, sé vindur af s. eða s. v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s.v. |
| " " 10 " miðnættis | Fagurt | Fagurt veður með frosti. |

### Litur loftsins um sólsetur.

Þegar himininn er gráleitur og myrkur um sólsetur, eða slái á hann grænum eða gul-grænum lit, er regn í vændum. Rautt sólarlag með skýjum, er verða myrkari, þegar fram á nóttina líður boðar einnig regn.

### Baugur um sólina.

Með baug um sólina meinum vér hina stóru hringi, eða hringparta, er liggja um sólina. Þegar baugur sést um sólina eftir gott veður, má búast við regni.

### Kórónа.

Með kórónu meinum vér smáa hringi, er sjást oft um sólina eða tunglið. Þegar kórónan fer minkandi, bendir það á regn, stækki hún, er fagurt veður í vændum.

### Regnbogar.

Regnbogi að morgni dags er álitinn boða regn; regnbogi að kveldi, fagurt veður.

### Litur himinsins.

Þegar þykkur, djúpur blámi sést á himninum, jafnvel þótt hann sjáist gegnum skýjað loft, boðar það fagurt veður; verði bláminn ljósari (hvítari), er stormur í nánd.

### Þoka.

Þokur benda á staðviðri. Morgunþoka er vanalega horfin um hádegi.

### Skafheiður himin.

Þegar gufuhvolfið er óvanalega skírt, og mjög stjörnubert er, og þær sýnast eins og deplar, er regn í vændum.

### Skýin.

Þegar vér athugum skýin, gefum vér gætur að, hvers konar ský það eru, hvernig þau hreyfast og hvernig þau eru í lögun. Ský þau, er menn oft nefna „hestatögl", köllum vér þráðaský (Cirri). Einkenni þeirra er, að þau sýnast eins og þunnur vefur, er hangir lauslega saman eins og tagl á hesti, eða þau sýnast fléttuð saman eins og hin fjarlægu ský, er mynda sólarhringina. Litlar, reglulega myndaðar þyrpingar af skýum þessum sjást oft fyrir stöðugu blíðviðri. En þráða-ský eru líka stundum fyrirboði storms. Þegar þau boða storm, eru þau vanalega þéttari (fleiri) og hliðar þeirra skörðóttar, og þá verða þau oftast að hvítleitum, löngum skýbakka. Ský þau, er alment eru kölluð „baðmullar-sekkir", eða „þrumuhöfuð", köllum vér skýja-þyrping (Cumulus). Þegar þau sjást um heitasta tíma dagsins, en hverfa með kvöldinu, er framhaldandi blíðviðri í vændum. Þegar þau aukast skyndilega, síga langt niður í gufuhvolfið, og hverfa ekki undir kvöldið, mun brátt von á regni. Þegar sérstök smáský virðast eins og slitna frá þeim, má búast við skúrum. Ský þau er sjást vanalegast eftir miðnætti, sýnast liggja marflöt og taka yfir mikið svæði, boða fagurt veður. Lítil svört vindaský eru fyrirboði regns.

### Loftþyngdarmælir.

Þegar vér notum loftþyngdarmæli, er áríðandi að gefa gætur að

hvort hann stendur fyrir ofan eða neðan vanalega hæð, og hvort hann ,,fellur" fljótt eða seint. Ef hann stendur fyrir ofan vanalega hæð og er stöðugur — smábreytist ekki —, verður sama fallega veður, þótt búast mætti við þykkn lofti. Ef hann stendur lágt og er að ,,falla", er regn eða í öllu falli dimmviðri í vændum. Þegar hann ,,stigur" eða ,,fellur" skyndilega (meira en 0,01 úr þumlungi á kl.-stund) bendir það á óstöðugt veður og storm.

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fall Trjóuborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Títusi | 70 |
| Constantínus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamningarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napóleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn til Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlantshaf | 1819 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Fyrsa alhemssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8 öld. Af Norðmönnum 860.

Fyrst varanleg bygð hefst 874.

Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.

Fyrstu lög og alþing sett 930.

Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.

Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.

Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reizt kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gizzurson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur, kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.
Fyrsta Heklugos, er sögur fara af 1104.
Fyrsta klaustur, reizt á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustur, í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186.
Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.
Svarti dauði geysaði, 1402.
Seinni plágan 1495.
Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.
Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.
Fyrstur lúterskur biskup, Gizzur Einarsson, 1539.
Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmann Gottskálksyni, 1540.
Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.
Spítali stofnaður fyrir holdveikt fólk 1652.
Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).
Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.
Stórabóla geysaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.
Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.
Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.
Seinasta löggjafarþing haldið á þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.
Fyrsta organ sétt í Leirárkirkju, 1800.
Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.
Landið gjört að biskupsdæmi 1801.
Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.
Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Fyrsti vísir til fréttablaða, Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau komu út 1796—1808).
Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþing í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík, 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossa-sala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.

— ——

**Stærð úthafanna.**

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. | míl. | flatarmál. |
| Suður-Íshafið | „ „ | 30,592,000 | „ | „ | „ |
| Indlandshafið | „ „ | 17,084,000 | „ | „ | „ |
| Atlandshafið | „ „ | 24,536,000 | „ | „ | „ |
| Kyrrahafið | „ „ | 50,309,000 | „ | „ | „ |

———

**Lengstur dagur.**

| | kl.t. mín. |
|---|---|
| Reykjavík | 20 56 |
| Pétursborg | 18 38 |
| Stokkhólmi | 18 35 |
| Edinborg | 17 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 20 |
| Berlín | 16 40 |
| London | 16 34 |
| París | 16 05 |
| Victoria, B. C. | 16 00 |
| Vínarborg | 15 56 |
| Boston | 15 14 |
| Chicago | 15 08 |
| Miklagarði | 15 04 |
| Cape Town | 14 20 |
| Calcutta | 13 24 |

**Þegar klukkan er 12**
**á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í**

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e.h. |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | " |
| Reykjavík | 4.07 | " |
| Edinburgh | 4.55 | " |
| London | 5.07 | " |
| París | 5.17 | " |
| Róm | 5.53 | " |
| Berlín | 6.02 | " |
| Vínarborg | 6.14 | " |
| Calcutta, Indl. | 11.01 | " |
| Pekin, Kína | 12.54 | f. h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | " |
| San Francisco | 8.54 | " |
| Lima, Perú | 12.00 | á hád. |

———

# FEBRÚAR hefir 28 daga 1909

| | | | |
|---|---|---|---|
| M | 1 | Brigildarmessa. | ÞORRI |
| Þ | 2 | Kindilmessa | |
| M | 3 | Blasíusmessa | |
| F | 4 | | |
| F | 5 | (☺)Fult t. 12.25 f. m. | |
| L | 6 | Sir Henry Irwing f. 1838. | 16. v. vetrar |

Verkamenn í víngarði, Matt. 20.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 7 | Níuviknaf. — Charles Dickens f. 1812.— su. 7.52, | |
| M | 8 | Stríðið milli Rússa og Japa byrjar 1904. [sl. 5.34 | |
| Þ | 9 | Baldvin Einarsson d. 1833 | |
| M | 10 | | |
| F | 11 | Thomas Edison f. 1847 | |
| F | 12 | Lincoln f. 1809 | |
| L | 13 | ☽Síð. kv. 3.47 f. m. Richard Wagner, tónfr. d. [1883. | — 17. v. vetrar |

Fernskonar sáðjörð, Lúk. 8.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 14 | 2. s. í níuv.f. — Lúters síð. préd. 1546.— su. 7.40, | |
| M | 15 | Jón Thorsteinss., landlækn. d. 1855. [sl. 5.45 | |
| Þ | 16 | Melankton f. 1497 | |
| M | 17 | Michael Angeló d. 1563 | |
| F | 18 | Marteinn Lúter d. 1546 | |
| F | 19 | | |
| L | 20 | ●Nýtt t. 1.52 f.m. (Góut.) Þorraþræll | — 18. v. v. |

Skírn Krists, Matt 3.

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | GÓA |
| S | 21 | Langafasta—sjöviknafasta — su. 7.26, sl. 5.58 | |
| M | 22 | Petursmessa | |
| Þ | 23 | Spreingikvöld | |
| M | 24 | Öskudagur | |
| F | 25 | Ingeman, danska skaldið d. 1862 | |
| F | 26 | ☾Fyrsta kv. 6.49 e. m. | |
| L | 27 | Longfellow f. 1807. | 19. v. vetrar |

Djöfullinn freistar Jesú. Matt. 4.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 28 | 1. s. í föstu. | su. 7.14, sl. 6.08 |

# MARZ hefir 31 dag 1909

| | | |
|---|---|---|
| | | GÓA |
| M | 1 | |
| Þ | 2 | Fyrsta þing Bandaríkjanna sett 1781 |
| M | 3 | Imrudagar. — Jónsmessa (h. f.) |
| F | 4 | |
| F | 5 | |
| L | 6 | ☺Fult t. 6.56 e.m. Svbj. Egilsson f. 1791. 20.v.v. |
| | | **Kamverska konan.** Matt. 15. |
| S | 7 | 2. s. í föstu. su. 7.00, sl. 6.19 |
| M | 8 | Jón Thoroddsen d. 1868 |
| Þ | 9 | Merrimac og Monitor-bardaginn 1862 |
| M | 10 | Edward konungur giftist 1863 |
| F | 11 | |
| F | 12 | Síra Páll Þorláksson d. 1882 |
| L | 13 | Dr. Guðbr. Vigfúss. f. 1827. 21. v. vetrar |
| | | **Jesús rak út djöful.** Lúk. 11. |
| S | 14 | 3. s. í f.—☽Síð. kv. 7.18 e. m. su. 6.45, sl. 6.31 |
| M | 15 | Fyrsta þing Manitoba-fylkis sett 1871 |
| Þ | 16 | Gvöndardagur (Guðm. h. góði Hólabisk.) |
| M | 17 | B. Gunnl.son d. 1876.— M. Stephanson d. 1883 |
| F | 18 | Hinrik Ibsen f. 1828 |
| F | 19 | David Livingstone f. 1813 |
| L | 20 | 22. v. vetrar |
| | | **Jesús mettar 5000 manns.** Jóh. 6. |
| S | 21 | Miðf. — ●Nýtt t. 11.51 e.m. Jafnd., vor byrjar (páskatungl) [su. 6.13, sl. 6.42 |
| M | 22 | Goethe d. 1832. Góuþræll. |
| | | EINMANUDUR |
| Þ | 23 | Einmánaðarsamkoma. — Heitdagur |
| M | 24 | Longfellow d. 1882 |
| F | 25 | Boðunardagur Maríu. — Konudagurinn |
| F | 26 | Beethoven, tónfræð. d. 1827 |
| L | 27 | John Bright d. 1889. 23. v. vetrar |
| | | **Gabríel engill sendur.** Lúk. 1. |
| S | 28 | 5. s. í f. ☾Fyrsta kv. 8.11 f.m. su. 5.59, sl. 7.04 |
| M | 29 | Swedenborg d. 1772. Jón Eiríksson, konferens- |
| Þ | 30 | [ráð d. 1787 |
| M | 31 | |

# APRÍL hefir 30 daga 1909

EINMANUDUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| F | 1 | Bismark f. 1813 | |
| F | 2 | Emil Zola f. 1849 | |
| L | 3 | Washington Irving d. 1774 | 24. v. vetrar |

**Krists innreið í Jerúsalem.** Matt. 21.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 4 | Pálmasunnud. (Dymbilvika). | su. 5.44, sl. 7.15 |
| M | 5 | Fult t. 12.38 e. m. | |
| Þ | 6 | Canada fundin 1497 | |
| M | 7 | | |
| F | 8 | Skírdagur | |
| F | 9 | Föstudagurinn langi | |
| L | 10 | General Booth f. 1829. | 25. v. vetrar |

**Krists upprisa.** Mark. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 11 | Páskadagur (páskav.). — Leónisdagur. | su. 5.30, |
| M | 12 | Henry Clay f. 1777. | [sl. 7.26 |
| Þ | 13 | Síð. kv. 6.30 f. m. — Thomas Jefferson f. 1743. | |
| M | 14 | Abraham Lincoln skotinn 1863 | |
| F | 15 | Shakespeare f. 1564 | |
| F | 16 | Magnúsmessa Eyjajarls (h. f.) | |
| L | 17 | Benj. Frankl. d. 1790. — Sumarmál af 26. v. v. | |

**Jesús kom að luktum dyrum.** Jóh. 20.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 18 | 1. s. e páska. | su. 5.16, sl. 7.30 |
| M | 19 | Nýtt t. 8.30 e.m. (sumart.) Melankton d. 1560 | |
| Þ | 20 | | |
| M | 21 | Jón Hjaltalín, landl. f. 1807. | |
| F | 22 | Sumardagurinn fyrsti. HARPA | 1. v. sum. |
| F | 23 | Jónsmessa. Hólab. (h. s.) | |
| L | 24 | Daniel Defoe d. 1731 | |

**Jesús er góði hirðirinn.** Jóh. 10.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 25 | 2. s. e. páska. — Gangdagurinn eini (mikli) — | |
| M | 26 | Molkte, hersh. d. 1891. | [su. 5.03, sl. 7.48 |
| Þ | 27 | Fyrsta kv. 12.36 f. m. — U. S. Grant hersh. f. | |
| M | 28 | | [1822 |
| F | 29 | Krímstríðið hætti 1856. | 2. v. sum. |
| F | 30 | | |

# WERNER'S

# SPOTTED PILLS

## LÆKNA ÞIG.

Þær eru hið bezta blóðhreinsunarlyf; styrkja taugarnar og fjörgar betur en nokkurt annað meðal sem til er á jörðunni.

Áhrifameira meðal hefir aldrei verið búið til. Hver sá, er hefir notað þær, er öldungis hissa á verkun þeirra, enda eru þær samsettar af hinum ágætustu efnum, og þykja þær stórkostleg sigurvinning fyrir meðalafræðina.

## „SPOTTED PILLS" lækna:

Allskonar floggigt, mjaðmagigt, grátsýki, svefnleysi, taugaveiklun, aflmissi, illa drauma, taugaslekju, veiklun, kynfærabilun, titring í útlimum, höfuðverk, tauga skjálfta, þunglyndi, minnisleysi og margt fl.

Kvenfólkið getum við fullvissað um það, að ekkert meðal er jafn styrkjandi og betri vörn gegn ýmsum sjúkdómum en „SPOTTED PILLS".

### Hvað segir svo fólkið um Spotted Pills:

(1) „Eg brúkaði að eins tvær öskjur og afleiðingarnar gerðu mig steinhissa". — Miss C.

(2) „Eg er sem nýr maður síðan eg fór að brúka „Spotted Pills". — Miss C—e-

(3) „Þú getur verið rólegur. Eg vil láta alla mína vini vita hvað „Spotted Pills" hafa gjört fyrir mig". -- Miss W.

(4) „Maðurinn minn segir að ykkar „Spotted Pills" séu það sæði sem framleiði hraustleik og blómlegt útlit — þær höfðu merkileg áhrif til góðs á mig". — Mrs. S—e.

WERNER'S SPOTTED PILLS.

Til kaups hjá öllum lyfsölum fyrir 50c., 6 fyrir $2.50. Eða sent frítt með pósti mót viðtöku peninganna.

---

## THE MARTIN, BOLE & WYNNE CO.

WINNIPEG, MANITOBA.

# MAÍ hefir 31 dag 1909

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HARPA |
| L | 1 | Tveggja postula messa | |
| | | **Krists burtför til föðursins.** Jóh. 16. | |
| S | 2 | 3. s. e. páska. | su. 4.52, sl. 7.58 |
| M | 3 | Krossmessa (á vori) | |
| Þ | 4 | | |
| M | 5 | ○Fult t. 3.52 f. m. — Napól. Bonaparte d. 1821 | |
| F | 6 | | 3. v. sumars |
| F | 7 | Kóngsbænadagur | |
| L | 8 | John Stuart Mill d. 1873. | |
| | | **Sending heilags anda.** Jóh. 16. | |
| S | 9 | 4.s.e.páska. — S hiller d. 1805. | su.4.41,sl.8.08 |
| M | 10 | Eldaskildagi | |
| Þ | 11 | | |
| M | 12 | ☽Síð. kv. 1.15 e. m. | |
| F | 13 | Stofnuð fyrsta ensk nýlenda í Amer. 1601 | 4. v. s. |
| F | 14 | Vinnuhjúaskildagi | |
| L | 15 | Hallvarðarm. — Petur bisk. Pétursson d. 1891 | |
| | | **Biðjið í Jesú nafni.** Jóh. 16. | |
| S | 16 | 5. s. e. páska. — Gangdagavika. — su. 4.33, sl. [8.17 | |
| M | 17 | Tómas Sæmundsson d. 1841. | |
| Þ | 18 | Rússa keisari f. 1868 | |
| M | 19 | ●Nýtt t. 6.18 f. m. — Gladstone d. 1898 | |
| F | 20 | Uppstigningard. — Columbus d. 1506. | 5. v. s. |
| F | 21 | | SKERPLA |
| L | 22 | Sæmundur fróði d. 1135 | |
| | | **Þegar huggarinn kemur.** Jóh. 15. | |
| S | 23 | 6. s. e. páska. | su. 4.26, sl. 8.25 |
| M | 24 | | |
| Þ | 25 | Úrbanusmessa | |
| M | 26 | ☾Fyrsta kv. 5.32 e. m. — Jónas Hallgrímss. d. 1845 | |
| F | 27 | Calvin d. 1564. | 6. v. sumars |
| F | 28 | | |
| L | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 | |
| | | **Sá, sem elskar mig.** Jóh. 14. | |
| S | 30 | Hvítas.d Helgavika. Eggert Ólafsson d. 1768 | |
| M | 31 | Annar í hvítasunnu. | su. 4.22, sl. 8.32 |

# JÚNÍ hefir 30 daga 1909

SKERPLA

| | | |
|---|---|---|
| Þ 1 | Garibaldi d. 1882 | |
| M 2 | Imbrudagar. — Sæluvika | |
| F 3 | ☺Fult t. 5.31 e. m. | 7. v. sumars |
| F 4 | | |
| L 5 | | |

Kristur og Nikódemus. Jóh. 3.

| | | |
|---|---|---|
| S 6 | Trínitatis. — Alexander mikli d. 356 f. K. | |
| M 7 | [su. 4.19, sl. 8.37 | |
| Þ 8 | Jón Hjaltalín, landlæknir d. 1882 | |
| M 9 | Charles Dickens d. 1870 | |
| F 10 | Dýridagur. — ☽Síð. kv. 6.17 e.m. | 8. v. sum. |
| F 11 | Barnabasmessa | |
| L 12 | Vítusmessa. — W. C. Bryant d. 1878 | |

Hinn auðugi maður. Lúk. 16.

| | | |
|---|---|---|
| S 13 | 1. s. e. trín. Jón landl. Sveinsson d. 1803 | |
| M 14 | Sig. Melsted, lector d. 1897 [su. 4.10, sl. 8.10 | |
| Þ 15 | John, Englandskongur undirskrifar Magna | |
| M 16 | [Carta 1215 | |
| F 17 | Jón Sigurðss. f. 1811. ●Nýtt t. 3.32 f. m. | |
| F 18 | [Sólmyrkvi. | 9. v. sumars |
| L 19 | | |

Hin mikla kvöldmáltíð. Lúk. 14.

| | | |
|---|---|---|
| S 20 | 2. s. e. trín. — su. 4.22, sl. 8.41 | |
| M 21 | | SOLMANUDUR |
| Þ 22 | Sólstöður. — Lengstur dagur. — 1000 píslarvott. | |
| M 23 | | |
| F 24 | Jónsm. — Kristni lögt. á Ísl. 1000. | 10. v. sum. |
| F 25 | ☾Fyrsta kv. 10.17 f. m. — Ásborgartrúarj. 1530 | |
| L 26 | | |

Hinn týndi sauður. Lúk. 15.

| | | |
|---|---|---|
| S 27 | 3. s. e. trin. | su. 4.26, sl. 8.39 |
| M 28 | | |
| Þ 29 | Pétursmessa og Páls | |
| M 30 | | |

## JÚLÍ hefir 31 dag 1909

SÓLMANUDUR

F 1 | Dominion-dagur. 11. v. sumars
F 2 | Þingmaríumessa. — Sviðhúnsmessa (h.f.)
L 3 | ☺ Fult t. 4.17 f. m.

Verið miskunnsamir. Lúk. 6.

S 4 | 4.s.e.trín. — Frelsisd. Bandaríkj.(1776). su. 4.32
M 5 | [sl. 8.35
Þ 6 |
M 7 | Jóhann Húss, brendur
F 8 | Seljumannamessa. 12. v. sum.
F 9 | ☽S. kv. 10.58. e.m.
L 10 | John Calvin f. 1509.

Jesús kennir af skipi. Lúk. 5.

S 11 | 5.s.e.trín. su. 4.40, sl. 8.29
M 12 |
Þ 13 | Margrétarmessa
M 14 | Franska stjórnarbyltingin 1789
F 15 | Sviðhúnsm. (h.s.) — Krosfarendur tóku 13. v. s.
F 16 | [Jerúsalem 1099.
L 17 | ●Nýtt t. 1.45 f.m.

Réttlæti faríseanna. Matt. 5.

S 18 | 6.s.e.trín. su. 4.49, sl. 8.21
M 19 |
Þ 20 | Þorláksm. (á sumri). — Guðbrandur bisk. d. 1627
M 21 | Robert Burns d. 1796. Aukanætur
F 22 | 14. v. sumars
F 23 | Hundadagar byrja
L 24 |

Jesús mettar 4000 manna. Mark. 8.

HEYANNIR

S 25 | 7.s.e.trín. — ☾Fyrsta kv. 3.15 f.m.— Miðsumar.
M 26 | [su. 4.58, sl. 8.11
Þ 27 | Atlantshafsritsíminn fullagður 1868
M 28 |
F 29 | Ólafsmessa (h.f.). 15. v. sumars
F 30 | William Penn d. 1718
L 31 | John Ericson, sænski f. 1802.

# ÁGÚST hefir 31 dag 1909

HEYANNIR

Um falsspámenn. Matt. 7.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 8.s.e.trín. — Fult t. 1.14 e.m. | Bandadagur |
| M | 2 | Ben. Sveinss., sýlum. d. 1899. | [su. 5.08, sl. 7.50 |
| Þ | 3 | Ólafsmessa (h.s.) | |
| M | 4 | H. C. Andersen d. 1875 | |
| F | 5 | Brynj. Sveinss., bisk. d. 1675. | 16. v. sumars |
| F | 6 | | |
| L | 7 | | |

Hinn rangláti ráðsmaður. Lúk. 16.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 9.s.e.trín. — Síð.kv. 4.50 f.m. | su.5.19, sl.7.45 |
| M | 9 | Kapt. Marryat d. 1818 | |
| Þ | 10 | Lafransmessa | |
| M | 11 | | |
| F | 12 | | 17. v. sumars |
| F | 13 | Manilla-borg gafst upp 1898 | |
| L | 14 | Napóleon I. f. 1769 | |

Jesús grætur yfir Jerúsalem. Lúk. 19.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 10.s.e.trín.—Maríumessa (h.f.) — | su. 5.29, sl.7.33 |
| M | 16 | Nýtt t. 3.55 e. m. | |
| Þ | 17 | Sveinbjörn Egilsson d. 1852 | |
| M | 18 | | |
| F | 19 | Gestur Pálsson d. 1892. | 18. v. sumars |
| F | 10 | | |
| L | 21 | | |

Faríseinn og tollheimtumaðurinn. Lúk. 18.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | 11. s. e. trín. | su. 5.30, sl. 7.19 |
| M | 23 | Fyrsta kv. 7.55 e. m. — Hundadagar enda | TVIMANUDUR |
| Þ | 24 | Bjarni Thorarensen d. 1841 | |
| M | 25 | | |
| F | 26 | | 19. v. sumars |
| F | 27 | | |
| L | 28 | Ágústín d. 430. — Leo Tolstoi f. 1828 | |

Daufi og málhalti maðurinn. Mark. 7.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 29 | 12.s.e.trín. — Höfuðdagur. — | su. 5.40, sl. 7.09 |
| M | 20 | Fult t. 9.08 e. m. — Jón Vídalín, bisk. d. 1720 | |
| Þ | 31 | John Bunyan d. 1688 | |

# SEPTEMBER hefir 30 daga 1909

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | TVIMANUDUR |
| M | 1 | | |
| F | 2 | Grundtvig d. 1872. | 20. v. sumars |
| F | 3 | | |
| L | 4 | Franska lýðveldið stofnað 1870 | |
| | | **Hinn miskunnsami Samverji.** Lúk. 10. | |
| S | 5 | 13.s.e.trín. | su. 6.00, sl. 6.49 |
| M | 6 | ☽S. kv. 12.16. e.m. — Verkamannadagur | |
| Þ | 7 | | |
| M | 8 | Maríumessa (h.s.) — Jerúsalem hertekin 70. | |
| F | 9 | | 21. v. sumars |
| F | 10 | | |
| L | 11 | | |
| | | **Tíu líkþráir.** Lúk. 17. | |
| S | 12 | 14.s.e.trín. | su. 6.10, sl. 6.34 |
| M | 13 | Bretar taka Quebec 1759 | |
| Þ | 14 | Krossmessa. — ●Nýtt t. 6.51 f.m. | |
| M | 15 | Imbrudagar. Sæluvika | |
| F | 16 | Moscow-borg brend 1812. | 22. v. sumars |
| F | 17 | | |
| L | 18 | Garfield, forseti d. 1881 | |
| | | **Enginn kann tveim herrum að þjóna.** Matt. 6. | |
| S | 19 | 15.s.e.trín. | su. 6.21, sl. 6.18 |
| M | 20 | | |
| Þ | 21 | Walter Scott d. 1832 | |
| M | 22 | ☾Fyrsta kv. 10.29 f.m. | |
| | | | HAUSTMANUDUR |
| F | 23 | Jafndæg.; haust byrj.—Sn.Sturlus.d.1241--23.v.s. | |
| F | 24 | | |
| L | 25 | Björn Gunnlaugsson f. 1788 | |
| | | **Sonur ekkjunnar í Nain.** Lúk. 7. | |
| S | 26 | 16.s.e.trín. | su. 6.30, sl. 6.02 |
| M | 27 | Fyrsta járnbraut fullgerð á Englandi 1825 | |
| Þ | 28 | | |
| M | 29 | Mikaelsmessa. — ○ Fult t. 5.05 e.m. | |
| F | 30 | | 24. v. sumars |

# NÓVEMBER hefir 30 daga 1909

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | Gormanudur |
| M | 1 | Allra-heilagra-messa | |
| Þ | 2 | Jenny Lind d. 1887. — Allra-sálna-messa. | |
| M | 3 | | |
| F | 4 | ☽Síð. kv. 12.22 e. m. | |
| F | 5 | | |
| L | 6 | | 3. v. vetrar |

Jesús prédikar um sælu. Matt. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 7 | 12.s.e.trín. — Jón Arason lífl. 1550. | su. 7.40, |
| M | 8 | | [sl. 4.46 |
| Þ | 9 | Skúli landfóg. d. 1794. — Játvarður Bretak. f. | |
| M | 10 | Lúter f. 1483 | |
| F | 11 | Marteinsmessa | |
| F | 12 | ●Nýtt t. 5.38 e. m. | |
| L | 13 | | 4. v. vetrar |

Skattpeningurinn. Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 14 | 23.s.e.trín. | su. 7.51, sl. 4.37 |
| M | 15 | | |
| Þ | 16 | Jónas Hallgrímsson f. 1807 | |
| M | 17 | Sues-skurðurinn opnaður 1869 | |
| F | 18 | | |
| F | 19 | | |
| L | 20 | ☾Fyrsta kv. 10.31 f. m. | 5. v. vetrar |

Konan blóðfallssjúka. Matt. 9.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 21 | 24.s.e.trín. Maríum; þríhelgar. | su. 8.00, sl. 4.31 |
| | | | Ylir |
| M | 22 | | |
| Þ | 23 | | |
| M | 24 | | |
| F | 25 | Katrínarmessa | |
| F | 26 | Konráðsmessa | |
| L | 27 | ○Fult t. 12.52 f. m. Tunglmyrkvi. | 6. v. vetr. |

Krists innreið í Jerúsalem. Matt. 21.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 28 | 1.s. í jólaföstu. Aðventa. | su. 8.12, sl. 4.27 |
| M | 29 | | |
| Þ | 30 | | |

| DESEMBER | hefir 31 dag | 1909 |
|---|---|---|
| | | ÝLIR |
| M 1 | Eggert Ólafsson f. 1726 | |
| F 2 | Bardaginn við Austerlitz 1805 | |
| F 3 | | |
| L 4 | ☾Síð. kv. 7.57 f. m. | 7. v. vetrar |
| | **Teikn á sól og tungli.** Lúk. 21. | |
| S 5 | 2. s. í jólaföstu. — Mozart d. 1791. — | su. 8.19, |
| M 6 | | [sl. 4.26. |
| Þ 7 | Jón Sigurðsson d. 1879 | |
| M 8 | Maríumessa | |
| F 9 | Milton f. 1608 | |
| F 10 | Alexander Dumas, sr. d. 1872 | |
| L 11 | | 8. v. vetrar |
| | **Jóhannes í böndum.** Matt. 11. | |
| S 12 | 3. s. í jólaföstu, — ●Nýtt t. 12.01 e. m. | (jólat.) |
| M 13 | | su. 8.24, sl. 4.27 |
| Þ 14 | George Washington d. 1799 | |
| M 15 | Imbrudagar. Sæluvika. | |
| F 16 | | |
| F 17 | | |
| L 18 | | 9. v. vetrar |
| | **Vitnisburður Jóhannesar skírara.** Jóh 1. | |
| S 19 | 4. s. í jólaf. — ☽Fyrsta kv. 5.42 e. m. | su. 8.28 |
| M 20 | | [sl. 4.31 |
| Þ 21 | Tómasmessa | |
| | | MÖRSUGUR |
| M 22 | Sólhvörf; skemstur dagur | |
| F 23 | Þorláksmessa | |
| F 24 | Aðfangadagur jóla. Nóttin helga | |
| L 25 | Jóladagur. | 10. v. vetrar |
| | **Spekingar og skriftlærðir.** Matt. 23. | |
| S 26 | Annar í jólum. — ○Fullt t. 1.30 e. m. — | su. 8.32, |
| M 27 | | [sl. 4.42 |
| Þ 28 | | |
| M 29 | Gladstone f. 1809 | |
| F 30 | Bjarni Thorarensen f. 1786 | |
| F 31 | Gamlársdagur | |



Íslenzkur verðlauna-hestur
á Þjórsár-sýningunni 1906.

Icelandic Pony.

# Almanak

15. ár. Winnipeg, Canada 1909.

## WILLIAM HOWARD TAFT.


William Howard Taft.

Við forseta kosningar í Bandaríkjunum 3. nóv. 1908 var kosinn með miklum meiri hluta atkvæða *William Howard Taft* frá borginni Cincinnati til að gegna því embætti, sem virðulegast er talið allra embætta, er nokkur þjóð felur einhverjum úr hópi borgara sinna. Tuttugu og fimm menn hafa gegnt því embætti áður; Taft verður því sá 26. í röðinni. Almannarómur mun það bæði í Banda-ríkjum og í Norðurálfu, að enginn

maður, sem það embætti hefir skipað, hafi verið betur undir það búinn en hann. Hverja trúnaðarstöðuna hefir hann skipað á fætur annarri og látið sér farast svo fyrirtaks-vel að fara með vandasömustu stjórnmála-ætlunarverk, sem unt er að fá nokkurum manni, að til þess er tekið. Bandaríkjamenn eru líklega verkhygnasta þjóð heims og kunna því betur að meta þá tegund hygginda en nokkur þjóð önnur. Þegar verkhygnin birtist í glæsilegu gerfi í opinberum störfum einhvers manns, eru þeir allra manna fúsastir og fljótastir til að launa og skera þá ekki við neglur sér.

Þess mikla metnaðar, er knýr suma menn áfram á metorðabrautinni, þangað til þeir eru komnir eins langt og hún liggur, hefir alls ekki gætt í fari hins nýkjörna forseta. Hann hefir borist áfram ósjálfrátt af straumi viðburðanna, oft og tíðum þveröfugt við fyrirætlanir og löngun. Hægt væri að segja, að óafvitandi hefði hann borist áfram af þyngdarlögmáli, sem hann ber í sálu sinni — því þyngdarlögmáli, er knýr hann ávalt til að taka á af öllu afli, í hvert skifti, sem honum hefir verið fengið eitthvert vandamál til meðferðar. Og maðurinn er stórskorinn bæði til líkama og sálar.

Lund hans virðist ekki margbrotin né torskilin. Hún er breið, föst, þróttmikil, óbrotin, opinská. Skylduræknin er honum guðsdýrkan. Þessi lund hefir einkent hann í öllu frá fyrstu árum. Á drengjaárum bar hann af öðrum að leikum og lærdómi. Við Yale-háskólann var hann hann bezt látinn maður í bekk sínum og nefndur S t ó r i B i l l T a f t; hann var leiðtogi bekkjarbræðra sinna á öllum svæðum — að knattleikum, í glímum, en til prófs var einn af meir en hundrað sambekkingum honum fremri. Að loknu námi, tók hann þau störf, er fyrst buðust, og gjörðist fregnriti ýmissa blaða um leið og hann hóf lög-

fræðinám. Ágætur fregnriti þótti hann og bezti námsmaður. Hann átti frægan föður og flugríkan, en hann vildi sjálfur ryðja sér braut og komast áfram af sjálfsdáðum. Hann gjörðist málfærslumaður og gekk vel, varð ungur yfirdómari í borginni Cincinnati. Fyrir átján árum var hann kallaður til Washington af Harrison forseta til að reka mál stjórnarinnar fyrir yfirrétti (Solicitor-General). Starfsþrek hans og dugnaður kom honum þá að góðu haldi. Hann vann mörg stór-mál og lét miklu meira til sín taka en alment gjörist um stjórnarþjóna. Um þær mundir hófst kunningsskapur og vinátta með þeim Roosevelt og honum. Er sagt, að Roosevelt hafi þá þegar talað um hann sem eimvélina miklu, er starfaði bæði nótt og dag. Vinátta þeirra hefir verið þeim hvorum um sig uppspretta þroskunar og andlegrar auðlegðar, og á að líkindum eftir að verða það betur enn.

Er hann fór aftur frá Washington, gjörðist hann héraðsdómari Bandaríkjanna í Cincinnati. Aftur tók hann á af alefli og lét skylduræknina einkenna öll störf sín. Vandræði mikil og viðsjár hófust með verkamönnum; varð hann að dæma í þeim vandamálum og varð fyrir árásum óbilgjarnra leiðtoga. En hugrekkið var óbilandi eigi síður en réttlætistilfinningin. Eitt sinn var verkfall mikið á járnbraut. Æsingar miklar voru með mönnum. Þegar dómur átti fram að fara, var dómsalurinn fullur verkalýðs. Var þá bitið á jaxl og blótað af mörgum og heitið að láta eigi dómarann sleppa heilan úr húsi, ef dómurinn yrði eigi verkfallsmönnum í vil. Eigi lét dómarinn bláeygi það blekkja sig, en brosti góðlátlega og engan skugga bar á brá hans. Hægt og stillilega kvað hann upp dómsúrskurð sinn. Brosið hvarf, ægilegur glampi kom í augað, högg af þungum hnefa skall í borðið og hann sagði hárri röddu og hvellri: Um leið og þið

farið út héðan vil eg láta ykkur vita, að eimlestirnar verða látnar ganga, þó öllu herliði Bandaríkjanna verði að beita til þess. Stórum skrefum stikaði dómarinn út úr salnum ósmeikur, en þungbrýnn mannhópurinn tvístraðist. Eimlestirnar fóru að ganga. Brigzlað var honum um dóm þenna eins og nærri má geta í kosningabaráttunni og leitast var við að fá vinnulýð allan til að snúast gegn honum vegna hans. Svarið var: ,,Eg hefði verið mannskræfa, óhæf til að gegna því embætti, sem mér þá var trúað fyrir, og enn óhæfari til þess embættis, sem nú er verið að tala um að trúa mér fyrir, ef eg hefði breytt á annan hátt''.

Árið 1900 var hann kvaddur til að greiða fram úr stærsta vandamáli, sem þjóðin hafði fyrir hendi — vandamáli eins miklu og nokkur þjóð hefir nokkuru sinni átt úr að leysa. Það var stjórn Filippseyja eftir stríðið við Spán. McKinley stóð uppi ráðþrota; hann kom ekki auga á mann, er trúandi væri fyrir slíkum stór-vanda. ,,Eg er að skimast eftir manni, stórum og sterkum og þolgóðum, varfærnum en lundföstum, sem eigi hlífist við að gjöra út af við sjálfan sig með önnum, ef á þarf að halda'', sagði forsetinn við ríkisritara sinn. ,,Því sendið þér ekki eftir honum? Vilhjálmur Taft er maðurinn, sem yður langar til að finna, dómarinn í Cincinnati''. Forsetinn símaði. Taft kom og vissi ekkert til hvers. Hann varð sem steini lostinn, er honum var sagt, að stjórnin vildi senda hann til Filippseyja og láta hann freista, að gjöra þjóð úr þeim óskaplega hóp viltra og síðlítilla, uppreistargjarnra og óupplýstra kynflokka, er mæla mörgum tungumálum og naumast höfðu hugmynd um mannfélagsskipan siðaðra þjóða. Taft vildi ekki fara og var nógu hreinskilinn til að segja það. Áleit Bandamönnum hollast að láta Filippseyjar eiga sig; hugur sinn stæði til dómara-

stöðu, en eigi til stjórnarstarfa. ,,En hér er vandinn mikli annars vegar,sem á þjóð vorri hvílir", sagði McKinley. ,,Þú ert maðurinn. Þú verður að ljá fulltingi. Það er skyldan!" Taft hafa víst runnið þau orð til rifja, því loks lét hann undan, þvert um geð sér, og fór.

Í Filippseyjum höfðu Spánverjar setið að völdum hálfa fjórðu öld. Af hinum mörgu stofnunum mannfélagsins höfðu þeir komið einni á fót — kirkjunni.

Á hálfu fjórða ári lét Taft sér hepnast að koma á fullu þjóðfélagsskipulagi og hrinda byrjandi þjóðlífi af stað með öllum stofnunum nýrrar siðmenningar. Fólkið umgekst hann brosandi eins og jafningja. Hann hló með þessum hálf-viltu mönnum og tók þátt í skemtunum þeirra. Hann vann fyrir þá baki brotnu og náði tiltrú þeirra. Hann kom þeim í skilning um, hve dýrmætt það er að geta verið sjálfstæð þjóð og staðið á eigin fótum. Eyjarskeggjar tala um hann enn með ást og lotningu og kalla hann S a n t o T a f t — heilaga Taft. Betur gátu þeir naumast launað honum. Hann er dýrlingur í huga þeirra.

Enginn hafði trú á stjórn Bandaríkjanna í þessum nýlendumálum. Menn álitu hana bresta mátt og megin, vit og vilja, lag og lempni til þess að láta sér hepnast að stjórna gjör-ólíkum, hálf-viltum og fremur illa innrættum kynflokkum, dreifðum og sundurlausum,í óskaplegri fjarlægð, og láta þá stjórn verða til gengis og farsældar, svo hér rynni upp í tölu þjóðanna sjálfstæð og fullveðja þjóð. En Taft sannfærði heiminn um, að þetta vandasama hlutverk væri Bandamönnum ekki ofvaxið og hægt væri að leysa það af hendi til sóma og velferðar. Hann hamaðist við störf sín í Manilla eins og eimvél í mannslíki. Þegar stjórn og þjóð heima fyrir skildi ekki, hvað til þurfti, bað Taft hvað eftir annað um réttlæti og hjálp og þolinmæði

Filippseyjamönnum til handa, eins og væri hann að flytja mál barna sinna. Á þenna hátt verndaði hann samvizku og sóma eigin þjóðar sinnar í þessum vandasömu viðskiftum.

Taft er maður léttlyndur og frígeðja og hefir ætíð hlátur, fyndni og kátínu á reiðum höndum. Samt er hann ávalt hinn virðulegi maður, er allir bera lotningu fyrir; spaug og hnittinyrði fljúga honum af vörum yfir vinnunni. Mestri furðu gegnir, hve miklu hann afkastar; eljan og áhuginn brennur í honum eins og eldur.

Eitt sinn á skólaárum var hann af skólabræðrum kosinn til einhverrar virðingar, en efast var um af einhverjum, að sú kosning hefði farið fram eftir öllum listarinnar reglum. Hann þverneitaði virðingunni, en var þegar í stað endurkosinn í einu hljóði. Í Cincinnati barði hann á lélegum ritstjóra, er ritað hafði níð um föður hans. Þegar hann var orðinn dómari Bandaríkjanna, fekk hann tilboð frá lögfræðinga-félagi í New York um að gjörast meðlimur þess, og fylgdi boðinu lögformleg ábyrgð fyrir $50,000 árslaunum. En hann neitaði og sagði: ,,Það eru mikilvægari hlutir til í heimi þessum en peningar". Þegar hann var í Filippseyjum, lætur hann ekkert tækifæri ónotað til að ávinna sér kærleika og tiltrú munaðarleysingjanna, sem honum hafði verið trúað fyrir.

Eyjarnar eru margar og fólksfjöldi mikill. Skifta varð þeim í ótal umdæmi og setja höfuðsmenn eða fylkisstjóra yfir. Þegar hann var að koma þessu í kring, varð hann að ferðast um alt landið og hleypa hinni nýju stjórn af hlunnum með viðhöfn sem mestri. Til þess nú að geta látið viðhöfnina vera sem mest eftir geði þjóðarinnar og taka í henni þann þátt, er bezt myndi hlýða, lagði hann það á sig, mitt í öðrum óskapa-önnum, að læra ferdansinn fræga, rigodon, er vandasamastur þykir allra dansa,

og Spánverjar höfðu kent eyjarskeggjum. Honum fanst hann eigi geta sýnt hinum nýju fylkisstjórum tilhlýðilega virðingu, nema hann gæti leitt frúr þeirra og dætur gegnum völundar-bugður þessa heimsfræga dans við viðhafnar veizlu þá, er haldin var á hverjum stað, er þeir tóku við embætti. Með þessari ástúð komst hann inn í huga og hjarta fólksins.

Eitt sinn hafði hann riðið langan veg á múldýri í sterkum sólarhita og allir vissu, að hann hlaut að vera sárþreyttur. En náttverðinn lét hann bíða sín heila klukkustund meðan hann var að sjá um múldýrið; hann vildi enga hvíld né hressing fyrr en aumingja málleysinginn, sem hann vissi myndi þreyttari miklu en hann sjálfur, hafði notið allrar þeirrar aðhlynningar, sem hann átti skilið. Sumarbústað á hann norður í Quebec-fylki í Kanada. Tekið er til þess, að hann hafi sézt þar á sumrum um miðja nótt á gangi í náttklæðum með óvært barn á örmum sér, til þess að konan hans og kvenfólk annað gæti notið svefns og náða. Tekið er líka til þess, hvernig Taft hlær; segja menn, að kærleikur hans til lífsins og mannanna og trú hans á mætti sjálfs sín, komi fram í hlátri hans, sem sagt hefir verið um í gamni, að heyrist um veröld alla. Ameríkumaðurinn sér sjálfan sig í æðra veldi, þar sem Taft er. Hann ferðaðist með konu sinni kring um hnöttinn og gekk fyrir konunga og keisara, Mikadóa og mildinga, án þess að hafa með sér þjón eða þernu. Það þótti löndum hans fyrirtak.

Í Manilla lagði hann svo mikið á sig, að allir aðstoðarmenn hans gáfust upp. Loks bilaði heilsa sjálfs hans og læknirinn sagði honum, að hann yrði að hverfa aftur til Bandaríkja eða líf hans yrði í mjög mikilli hættu. Um sama leyti kom boð frá forseta Bandaríkjanna, sem komst við af fréttum þessum, að nú skyldi honum veitt dómara-

sæti í hæstarétti Bandaríkjanna, en óskina um það embætti hafði hann alið í brjósti til margra ára. En hann óttast, að brottför hans frá eyjunum og fólkinu einmitt á þeim tíma myndi verða til mikils tjóns, og símar: ,,Beztu þakkir. Má eigi að svo stöddu flýja af hólmi". Að ári liðnu var sama freistingin aftur fyrir hann lögð, en hann hafnaði. Hvað eftir annað á hann í höggi við sendinefndir frá þinginu í Washington. Ávalt berst hann af alefli fyrir því, að Filippseyjamönnum sé sýnt réttlæti í öllum efnum, frelsið ekki skorið við nögl sér og hverju einasta framfaraskilyrði fullnægt.

Svo opinskár er hann og einlægur, að menn hafa álitið hann lélegan stjórnmálamann og haldið, það myndi standa í vegi þess, að hann nokkuru sinni kæmist í forsetastól. Einþykkur hefir hann líka þótt, er því hefir verið að skifta. Ófriður hafði verið allmikill með samveldismönnum í Ohio-ríki. Crane, senator frá Massachusetts, vill koma á sættum. Hann vill, að Taft verði kosinn þar forseti og hann vill að Foraker, senator, verði endurkosinn til öldungadeildar sambandsþingsins. Hann sækir Foraker heim og fær hans samþykki, þó áður væri hann Taft andvígur. Hann sækir Roosevelt heim, ber þetta undir hann; forsetinn álítur þetta heillaráð: ,,Far og seg þú Taft, að þessu sé eg samþykkur af heilum hug og það ætti að gilda".

Sáttarsemjarinn sækir þessu næst Taft heim og leggur þetta fyrir hann. En Taft vill ekki ljá því eyra, hinum til mikillar furðu. ,,Það sem þú fer fram á að eg gjöri, er samningur um, að eg kaupi mér fylgi Forakers til forsetakosningar fyrir að láta vini mína í Ohió kjósa hann senator. Sjálfur hefi eg ekkert á móti því, að hann verði endurkosinn. En vinum mínum í Ohió er það mjög á móti skapi. Þeir höfðu ætlað sér að vera honum andvígir

við kosningar löngu áður en eg hafði verið nefndur á nafn til forsetaefnis. Til að koma á friði, ætti eg þá að selja vini mína. Því neita eg eitt skifti fyrir öll. Eg svara því og engu öðru. Það væri að kaupa forseta-tign verði of háu''.

Illa var talað um Taft á eftir fyrir einþyknina, sagt, að hann væri eintjrjáningur og ætti ekkert af hyggindum stjórnmálamannsins. Og þó hafa þarna komið fram mannkostir, sem þjóð hans hefir kunnað að meta og vinfestan orðið vænni til sigurs en undirhyggja og kænska.

Síðustu ár hefir Taft verið álitinn úrræðamaðurinn, er vandræði hefir að höndum borið, sem öðrum hafa verið ofvaxin. Sjálfsagt hefir þótt að fela Taft á hendur að færa þau á rétta leið. Eigi að eins skóp hann skipulag úr óskapnaði í Filippseyjum, heldur bægði hann borgarastyrjöld frá dyrum í Cuba og stjórnleysi, kom sáttum á við páfahirðina út af eignum kaþólskrar kirkju í Filippseyjum, hratt af stað Panamaskurðar-fyrirtækinu mikla með nýju fjöri. Roosevelt sagði um hann, að hann væri stærsti starfskrafturinn í landinu. Hann tekur enga hvíld. Hann er að vinna frá kl. 8 að morgni til miðnættis. ,,Hann vinnur eins og víkingur, er harðsóttur að leikum, hávær, þegar hann hlær, sefur eins og selur, etur hraustlega, og kemur óþyrmilega við kaun, ef hann er illa hvektur''. Svo er honum lýst af einum samtíðarmanni. Hann hefir haft hamingju með sér í öllum málum, sem hann hefir haft með höndum og hamingju með sér nú við kosningarnar. Vonandi nýtur hann sömu hamingju við forsetastörfin. Hann þarf þar á öllum sínum dugnaði að halda. Forsetaembættið er sjálfsagt stærsta, umfangsmesta og vandasamasta embætti, sem nokkurum manni á jarðríki er í hendur fengið. Sagt hefir verið um Taft, að hann standi miðja vegu milli McKinley og Roosevelt;

ádeilur stöðugar fremur illa við hann; var hann stöðugt hræddur um sig og gekk með eins konar þrælsótta á sálu sinni, sem olli honum hjartabilunar og setti meira kjarkleysismót á lund hans en annars hefði þurft að verða. Þrátt fyrir þenna heimilisbrag, þótti þeim hjónum báðum



Jón Ólafsson og kona hans Helga Jónasdóttir.

vænt um tökusoninn og vildu honum alt hið bezta. Fekk fótsri Jóns þá hugmynd um hann, að hann hefði meiri hæfileika til smíða en hann hafði orðið var hjá öðrum, er lærðu hjá honum, og var honum það til mikillar ánægju.

Árið 1846 bað Grímur Jónsson amtmaður um Jón í því skyni að kenna honum ritstörf og má af því marka, að Jón hafi verið öðrum unglingum líklegri til þeirra hluta. Ætlaði hann að gjöra hann að skrifara sínum, að kenslu lokinni. Þessarri beiðni svaraði fóstri hans með því, að þessu skyldi Jón sjálfur ráða. Vildi hann eigi sökum, vináttu við amtmann, neita beiðninni, en hefir víst talið sjálf-

sagt, að Jón myndi hafna vistaskiftum. En er til Jóns kasta kom, varð hann fljótur til svars. Af bernsku og feginleik varð honum að orði: ,,Guði sé lof"! En af þeirri upphrópan varð fóstri hans þess var, hve feginn Jón varð að losast frá honum og að hann mat eigi fóstrið eins mikils og hann vildi. Mun þetta hafa orðið honum nokkurt angursefni, enda lét hann það klingja í eyrum Jóni oft á eftir. Vafalaust hefir heimilisbragurinn átt þátt í upphrópan þessarri, án þess henni fylgdi nokkur veruleg hugsan um, hvað væri fyrir beztu.

Með Grími amtmanni var Jón í góðu yfirlæti á Möðruvöllum þau þrjú ár, er hann átti ólifuð. Árið 1849 tók hann við skrifarastörfum hjá Eggerti Briem, sýslumanni í Eyjafjarðarsýslu, og var með honum sjö ár samfleytt.

Árið 1856 gekk Jón Ólafsson að eiga jungfrú Guðnýju Jónsdóttur, Sigurðssonar frá Víðigerði. Reistu þau bú að Ytrahóli í Kaupangssveit. Af sérstökum ástæðum fluttust þau á næsta ári að Hallgilsstöðum í Hörgárdal. En þá tók kona Jóns svo hættulega sótt, að hann hlaut að selja bústofn sinn haustið 1857. Ætlaði hann þá eftir læknisráði að fara með hana til Kaupmannahafnar til lækninga. En er að því kom, að búast skyldi til farar, reyndist hún eigi ferðafær. Lézt hún á Akureyri 16. jan. 1858. Son höfðu þau eignast, sem látist hafði nokkuru á undan móðurinni.

Vorið 1858 fluttist Jón til Reykjadals í Þingeyjarsýslu. Var hann þar við búskaparvinnu að sumrinu, en fekst við barnakenslu á ýmsum stöðum að vetri. Einkum kendi hann skrift og reikning; fáir voru svo djarfir á þeim árum að seilast lengra.

Sumarið 1859 giftist Jón í annað sinn 15. dag júní mánaðar, sama dag og hann hafði gengið í fyrra hjónaband sitt fyrir þrem árum. Gekk hann nú að eiga jung-

frú Helgu Jónasdóttur frá Öndúlfsstöðum, Sigmundssonar frá Vindbelg við Mývatn. Vorið 1860 reistu þau bú að Hallgilsstöðum í Reykjadal; bjuggu þau þar í fjögur ár, þá eitt ár að Öndólfsstöðum. Vorið 1865 tók hann skrifarastöðu með Þorsteini kanselíráði Jónssyni, sýslumanni í Húsavík, og fluttist þangað með fjölskyldu sína. Sumarið 1866 réðst hann til Vopnafjarðar til að gegna þar verzlunarstörfum, eftir lát Grönvolds verzlunarstjóra. Konu sína og börn skildi hann eftir í Húsavík.

Sumarið 1867 bauðst Jóni lífvænleg staða við skrifarastörf með Olivarius, sýslumanni í Suðurmúlasýslu, á Eskifirði. Samdist svo með þeim, að Jón fengi 400 ríkisdali að launum árið 1867—68, en ef hann vildi halda þeirri stöðu áfram, átti hann þó að eins að fá 120 ríkisdali í árslaun. Sótti hann þá konu og börn til Húsavíkur og fluttist alfari til Eskifjarðar. Hafði hann á hendi skrifarastörf fyrir Múlasýslur báðar veturinn 1867—8 og átti heimili með sýslumanni O.W.Smith á Seyðisfirði. Olivarius sýslumaður sigldi til Kaupmannahafnar og sat þar um veturinn. Eftir að Jón tók að kynnast á Eskifirði, komst hann að þeirri niðurstöðu, að eigi yrði honum unt að framfleyta lífi sínu og sinna á 120 ríkisdala árslaunum. Afréð hann því sumarið 1869 að snúa aftur til Eyjafjarðar. Átti hann þar skrifara-stöðu vissa með Pétri Havstein amtmanni á Möðruvöllum.

En nú var Jón kominn í fjárþurð. Árin höfðu liðið og lítið fé safnast; laun stöðugt af svo skornum skamti að með naumindum varð lifað. Hann hafði að mestu leyti stundað skrifarastörf með ýmsum embættismönnum; lent alla leið til Eskifjarðar. En þar komst hann í svo krappan dans við fátæktina, að nú gat hann eigi til Eyjafjarðar komist, og sætt stöðu þeirri, sem honum stóð til boða. Tók hann nú það ráð að biðja fóstra sinn um styrk

til fararinnar. En því svaraði Daníelsen á þá leið, að hann hann skyldi biðja um sveitaflutning. Um leið og hann gaf fóstursyni sínum þetta heillaráð, lét hann í ljós ánægju sína yfir komu hans til Eyjafjarðar, því þar gæti hann bæði verið skrifari Havsteins amtmanns og haft á hendi skriftir og reikningsfærslu fyrir umboð Möðruvallaklausturs, sem Daníelsen hafði á hendi. Jón hafði talið sér styrk frá fóstra sínum vísan í hendi, þar sem honum var vel kunnugt um, að hann hafði sagt upp vist sinni hjá Olivarius sýslumanni og stóð þar uppi atvinnulaus, þorrinn að fé og ráðþrota með fjölskyldu sína.

Þegar Jóni hepnaðist nú samt að komast inn í Eyjafjörð, voru viðtökur hjá fóstra hans furðu kaldar, svo alltilfinnanlegt var ofan á ferðavolk og fátækt. Í stað þess nú að láta honum nokkura hjálp í té sjálfur, fór hann til upp á eigin býti, að Jóni alveg forspurðum, og bað um lán handa honum af sveitarfé, meðan hann væri að vinna fyrir fyrstu árslaunum hjá Havstein, amtmanni. Lánið fekst, en var Jóni mjög mikil skapraun. Að fimm árum liðnum hepnaðist honum að greiða það aftur af hendi að fullu á þann hátt, sem hreppsnefnd þótti fullnægjandi og gaf honum kvittan, sem lýsti hann lausan frá ,,öllum kröfum af sveitarinnar hálfu''.

Flestir fóstursynir myndi hafa tekið sér allnærri kaldlyndi þetta og kærleiksleysi, og svo mun hafa verið um Jón, sem ávalt hefir verið maður viðkvæmur og hjálpfús. Öllum var þá kunnugt, að Þorsteinn Daníelsen var þá einn auðugastur maður á Íslandi. Hann átti fjörutíu jarðir og jarðarparta og var auk þess umboðsmaður yfir sextíu jörðum, er heyrðu til Möðruvallaklaustri gegn all-ríflegum umboðslaunum, alt að 800 krónum árlega. Nú var honum mikið áhugamál að geta notað Jón til allra skrifta og reikningsfærslu fyrir sig og umboðið. Sjálfur gat

hann ekkert af því gjört, en lét sér ant um að fá það verk unnið fyrir borgun sem allra-minsta. Jóni galt hann *50 aura* fyrir hvert fullkomið dagsverk, sem hann vann fyrir hann og fyrir styttri stund hlutfallslega. Seinna borgaði hann samt 100 krónur, sem Jón skuldaði í verzlunarbúð, enda var hann þá settur af Chr. Christianson, amtmanni, aðstoðarumboðsmaður klausturjarðanna upp á ábyrgð fóstra síns, án sérstakra launa.

Ástæðu tilfærir Jón þessum skorti fóstra síns á velvild og hjálpsemi til afsökunar. Hann tekur það skýrt og greinilega fram, að hann muni ekki að eins hafa látið sig gjalda þess, er hann fór frá honum upphaflega með fagnaðarópið á vörum, sem áður er sagt frá, heldur einnig annars. Við skrifara-störfin hafði Jón vanist á nokkura áfengisnautn, þegar eftir brottför sína frá Skipalóni og vildi það haldast. En Daníelsen var mesti hatursmaður ofdrykkjunnar og leit svo á, að öll fátækt og böl væri af henni runnið; þeim, sem eitthvað væri við hana kendir, væri engin vorkunnsemi eða líkn sýnandi.

Í sambandi við þröngan efnahag á Eskifirði, getur Jón þess með þakklátum huga, að einn af efnuðustu bændum í Reyðarfirði, Andrés Eyjólfsson, bóndi á Helgastöðum, tók af honum til fósturs yngsta barn hans; var það drengur, Þorsteinn að nafni, og fór til hans nýfæddur árið 1868, en Jón lofaði meðlagi með honnm. En áður Jón fór af Eskifirði, gaf Andrés honum eftir eigi að eins meðlagsloforðið, heldur og allar kröfur um meðlag framvegis og tók barnið til fulls fósturs. Síðar arfleiddi Andrés þetta fósturbarn sitt að einum þriðjungi eigna sinna, fastra og lausra. Naumast minnist Jón nokkurn tíma þessa velgjörðamanns síns svo, að hann biðji eigi drottin að launa honum líknarverkið.

Oft hefir Jón víst um það hugsað, hvor atvinnuveg-

urinn myndi hafa orðið honum hamingjudrýgri, timburmannsiðnin, sem fóstri hans hafði fyrirhugað honum, eða skrifarastaðan, sem hann kaus sér. En víst er um það, að hugur hans hneigðist meira til ritstarfanna og oftast verður affarasælast að hallast í þá áttina, sem þráin ósjálfrátt bendir.

Meðan Jón gegndi skrifarastörfum í Eyjafirði bjó hann í Spónsgerði þrjú ár og síðar á Hallgilsstöðum tvö ár. Árið 1875 fluttist hann búferlum að Gullbrekku í Eyjafirði en var hrakinn þaðan aftur af eiganda jarðarinnar, sem sjálfur tók hana til ábúðar á næsta ári. Fluttist Jón þá að Æsustöðum 1876 og bjó þar eitt ár. Seldi síðan búslóð sína á opinberu söluþingi vorið 1877. Fekk hann þá húsaskjól á Ytra-Laugalandi fyrir sig og fjölskyldu sína, en var sjálfur á lausum kili, því tvö umboð hafði hann á hendi, sem bönnuðu kyrrsetu. Öll þau ár, sem hann var seinast í Eyjafjarðarsýslu, hafði hann á hendi skriftir og reikningsfærslu Möðruvallaklausturs og var settur aðstoðar-umboðsmaður fóstra síns, Þorsteins Daníelsen, tvö síðustu árin, sem hann var á Íslandi. En um það leyti fekk hann líka löglegt umboð til að skrásetja menn til Vesturheims-farar með fólkflutningsskipum Allan-línunnar.

Sumarið 1878 höfðu full fjögur hundruð manns verið skrásett til vesturflutnings, flestallir af Jóni Ólafssyni. Með hópi þessum réðst hann sjálfur til farar. Varð sú för hans til þess, að hann fastréð að flýja til Manitobafylkis með sig og alt sitt og setjast að í landnáminu íslenzka við Winnipeg-vatn. Lagði hann af stað með fjölskyldu sína í þá ferð 24. júní 1879 með skipi Allan-línunnar. Tæp fjögur hundruð útflytjendur töldust að vera í þeirri för.

Sumarið 1882 nam hann land í samfloti við fjórtán

Íslendinga, þar sem Argyle-bygð myndaðist. Reisti hann þegar íverukofa á jörð sinni. Var hann 12 fóta breiður og 16 fóta langur að innanmáli. Allur var hann hlaðinn upp úr torfi. Var plógur settur í jörð og látinn rista strengina, sem veggir voru hlaðnir úr, og gekk því verkið greiðlega. Viðurinn, sem fór í grind og upprefti, var sóttur skamma leið í skógarbelti eitt í grend og var exin ein notuð til að fella og telgja. Undir kofa þessum gróf hann kjallara, 8 fóta breiðan og 10 fóta langan og hálft sjötta fet á hæð undir gólf, sem var lagt úr tilhögnum skógarrenglum. Voru veggir kofans klæddir léreftum fyrir ofan rekkju og sömuleiðis á bak við borð, sem stóð fyrir stafni undir stórum glugga með sex rúðum í. Fjölskrúðug voru híbýlin ekki, en svo er þeim nákvæmlega lýst, til þess síðari kynslóðir geti fengið nokkura hugmynd um lífskjör þau, er feður þeirra áttu við að búa fyrstu frumbýlings ár sín hér.

En þarna inni í þessum fátæklega kofa fór þeim hjónum fyrst á æfinni að finnast dagrenning vera að koma í efnalegu tilliti. Í þessum kofa bjuggu þau með þrem dætrum hátt á þriðja ár. Þó var það eitt, sem fljótt fór að ama að, eftir að vestur kom, en það var heilsubrestur. Kendi Jón hans þegar í fyrri ferð sinni vestur 1878. Tók hann þá að þjást af meltingarleysi, sem aldrei hefir síðan lagast. Á þenna kvilla bættist það, að 12. marz 1896 fekk hann eins konar *slag* (apopleksi). Þó náði hann sér furðanlega eftir það, en skilið hefir það eftir ýmis konar veiklan á sálu og líkama.

Vorið 1894 hætti Jón búskap. Fekk hann Alberti, syni sínum jörð sína til allra afnota með samningi um, að hann sæi fyrir foreldrum sínum eins lengi og þau lifði.

Börn þeirra hjóna eru þessi:

1. Eggert, f. 1. ágúst 1860
2. Albert, f. 9. maí 1862
3. Guðný, f. 2. febrúar 1864
4. Jónas, f. 10. október 1865, d. 28. des. 1904

5. Ólafur, f. 20. febr. 1867
6. Þorsteinn, f. 5. júní 1868
7. Margrét, f. 8. maí 1871
8. Lilja, f. 11. júlí 1873.

Jón Ólafsson er öllum kær, sem hann þekkja. Hjartalagið hlýtt og gott og trúfast og hugsanir hans og tilfinningar lýsa mannúð og göfuglyndi, þó fátækt og örðugar ástæður hafi oft dulið þetta heiminum. Hann er betur mentur en fólk er flest fyrir langvinna sambúð og umgengni við ýmsa helztu menn ættjarðar sinnar. Rithönd hans var prýðisgóð og hefir hún haldist nokkurn veginn óbreytt fram á þenna dag, jafnvel eftir veikindi þau, sem getið er hér að framan. Nafn sitt kann hann enn að rita, svo það er snild af manni jafn-gömlum. Vilji hans og hugur til að vera nýtur maður í mannfélaginu hefir ávalt verið langar leiðir á undan mættinum til að sýna það í framkvæmdinni, eins og verða vill fyrir svo mörgum, en fundið mun Jón hafa til þess sárar flestum öðrum. Hann er maður sérlega trúhneigður, með einlægan og fölskvalausan kristindóm í hjarta; hugsar hann um liðna æfi og lífsferil allan með hjarta fult þakklátsemi við kærleiksríka forsjón, sem leitt hefir og stutt í baráttunni. Fermingarföður síns, síra Jóns Jónssonar, sem síðast var prestur á Möðruvöllum, minnist hann með mikilli lotningu og finst hann hafa gróðursett alt gott í hjarta sínu.

Öldunginum á Brú óska allir vinir hans, nær og fjær, friðsælla æfiloka. *F. J. B.*

---

Nafndráttur eftir nýrituðu bréfi til útgef.



## ABRAHAM LINCOLN.

(Eptir Sigtr. Jónasson).



Abraham Lincoln.

Útgefandi Almanaks þessa fór þess á leit við mig fyrir nokkuru síðan, að eg skrifaði í það greinar - stúf um eitthvert efni. Eg dróst á þetta við hann. Og þegar eg fór að hugsa um efni, mintist eg þess, að næstkomanda 12. febr. verða liðin 100 ár frá fæðing þess manns, er að mínu áliti var m e s t i maðurinn, sem uppi hefir verið í þessarri heimsálfu, og ef til vill þó víðar sé leitað. Eg á við Abraham Lincoln, manninn, sem var forseti Bandaríkjanna í Norður-Ameríku alla tíð á meðan innbyrðis ófrið-

ur inn eða hið svonefnda „þrælastríð", milli „Norður-ríkjanna" og „Suður-ríkjanna" stóð yfir fyrir hálfri öld síðan. Íbúar Bandaríkjanna eru nú þegar farnir að undirbúa stórkostlegt hátíðarhald um alt landið til að minnast Lincolns forseta, sem réttilega er nefndur „frelsari" ríkjasambandsins — Bandaríkjanna — hins víðlendasta og voldugasta lýðveldis, sem nokkurn tíma hefir átt sér stað í veröldinni. Mér fanst því, að ritgjörð um Lincoln væri mjög tímabær, og ásetti mér að skrifa grein um hann í Almanakið. En því miður er rúmið takmarkað, svo mér er ómögulegt að segja æfisögu mikilmennisins, Lincolns, eins og eg hefði viljað gjöra það, og vona eg að lesendur Almanaksins taki viljan, fyrir verkið.

Eg ætla að byrja með því, að gefa yfirlit yfir helztu viðburði í æfisögu Lincolns á yngri árum hans, svo lesendur Almanaksins, sem eg ímynda mér að fáir, einkum utan Bandaríkjanna, sé sögu hans svo nákvæmlega kunnugir, geti betur áttað sig á því sem á eftir fer.

Abraham Lincoln, 16. forseti Bandaríkjanna í Norður-Ameríku, var fæddur í bjálkakofa á nýbýli foreldra hans út í skógunum í Hardin-county í Kentucky-ríki, 12. feb. 1809. Faðir hans var Thomas Lincoln, en móðir hans hét Nancy Hanks áður hún giftist. Eftir því sem menn bezt vita, var Thomas Lincoln kominn af Samúel Lincoln frá Norwich á Englandi, er flutti vestur um haf og settist að í Hingham í Massachussets-ríki árið 1638. Nokkurir af afkomendum Samúels, er voru kvekarar, fluttu frá Massachussets suður í Amity-township í New-Jersey-ríki (nú Berks-county í Pennsylvania-ríki), og síðar meir suður til Rockingham-county í Virginia-ríki. — Lincolns-fólkinu í Virginia er í ritum frá þeirri tíð lýst þannig, að það væri „heiðvirt og efnað fólk".

Abraham Lincoln eldri, afi Abrahams Lincolns for-

seta, var kunnur hinum nafntogaða veiðimanni og landa-kannara Daníel Boone, og afleiðingin af þessari viðkynning varð sú, að Abraham Lincoln, eldri, flutti sig með fjölskyldu sína norðvestur í eyði-skógana í Kentucky-ríki, þar sem nú er Jefferson-county. Þar drápu Indíánar hann fyrir augum sona hans þriggja, er þeir feðgar voru að ryðja og hreinsa bújörð sína. Yngsti sonurinn hét Thomas, og var hann að eins 6 ára að aldri, þegar faðir hans var drepinn. Piltur þessi ólst upp í algjörðu mentunarleysi, og hélt sér fyrst uppi á ýmisskonar vinnu, en síðar fór hann að læra trésmíði. Hann var mikill vexti og sterkur, en virðist hafa verið fremur latur og enginn gróðamaður. Þegar honum rann í skap, er sagt að hann hafi tekið ómjúkum höndum á mótstöðumönnum sínum. Árið 1806 giftist hinn ungi trésmiður Nancy Hanks systurdóttur Jóseph Hanks, trésmiðs, í Elizabethtown, í Kentucky, er hann vann hjá. Hún var komin af ómentuðu almúgafólki, en var fríð sýnum, greind, og kunni að lesa og skrifa, og er sagt að hún hafi kent manni sínum að klóra nafnið sitt. Fyrst eftir að þau giftust, áttu hin ungu hjón heima í litlum bjálkakofa fast við Elizabethtown, og þar fæddist þeim dóttir. Ári eftir að hann giftist, keypti Thomas Lincoln litla og hrjóstuga bújörð við grein af Nolin Creek í Hardin-county. Þangað flutti hann með konu sína og dóttur og lifðu þau þar í mikilli fátækt. Íbúðarhúsið var lítill og lélegur bjálkakofi, með einum dyrum, einum glugga og leirgólfi. Tveim árum síðar, 12. febr. 1809, fæddist þeim hjónum sonur í þessum lélega kofa, og létu þau hann heita eftir afa sínum, Abraham Lincoln. Það var þessi sonur þeirra, sem síðar varð forseti Bandaríkjanna, hann, sem stjórnaði þeim á meðan hið voðalega borgarastríð stóð yfir, og var

myrtur eftir að hann hafði frelsað ríkja-sambandið og leyst fleiri miljónir svertingja úr þrældómi.

Piltinum, Abraham Lincoln, þótti gaman að veiðum, en varð snema alvörugefinn og þyrsti eftir mentun, svo að í stað þess að eyða tíma sínum í veiðiskap, gekk hann daglega með systur sinni á skóla-nefnu, sem var fjórar mílur burtu frá heimili þeirra. En sú skólaganga varaði ekki lengi. Árið 1816 — þá var pilturinn 7 ára — varð faðir hans missáttur við nágranna sinn, og út úr því var það, að Thomas Lincoln flutti um haustið með fjölskyldu sína vestur í Indíana-ríki og tók sér bólfestu í óbygðunum í Perry-county, við læk, er nefndist Pigeon Creek. Þar átti fjölskyldan erfitt uppdráttar framan af, því lífsvonin bygðist á dýrum þeim, er bóndinn skaut til matar, og maískorni, er yrkt varð á bletti, sem skógurinn var ruddur af. Hér við bættist, að pláss þetta var óheilnæmt, og dó móðir Abrahams úr sýki, er gekk í bygðinni, tveim árum eftir að þau settust þar að. Er sagt, að pilturinn, sem var frá upphafi viðkvæmur í lund, hafi syrgt móður sína mjög, þótt hann væri þá að eins 9 ára.

Liðugu ári seinna giftist Thomas Lincoln aftur. Konan, er hann þá giftist, hét Sarah Bush og var ekkja frá hinu gamla heimkynni hans, Elizabethtown í Kentucky. Hún átti nokkur efni er hún flutti með sér, var búsýslukona mikil, myndarleg í öllu, og góð kristin húsmóðir. Þótt hún sjálf ætti þrjú börn, son og tvær dætur, reyndist hún Lincolns-börnunum sem bezta móðir. Hún klæddi þau betur en þau höfðu átt að venjast og fór með þau sem sín eigin börn. Einkum tók hún þó mest ástfóstri við Abraham litla, og einmana móðurleysinginn elskaði hana og var henni eftirlátur. Það er enginn vafi á því að kona þessi, stjúpmóðir Abrahams Lincolns, átti mikinn þátt í því að úr honum varð sá maður sem hann

síðar reyndist, og á Bandaríkja-þjóðin henni mikið að þakka — eins og aðrar þjóðir ætíð eiga mikið að þakka mæðrum ágætismanna sinna.

Strax á unga aldri, tíu ára gamall, vandist sveinninn Abraham Lincoln við harða vinnu. Þegar hann var ekki að höggva skóg, keyrði hann hesta, þreskti korn, plægði land, eða hjálpaði föður sínum við smíða-vinnu. Hann jafnvel vann hjá nábúum föður síns við að plægja, passa hesta, bera vatn, gæta barna, og við hver önnur heimilisverk, fyrir 25 centa kaup á dag. Fram að þessum tíma hafði hann verið fremur smár vexti og þroskalítill, en eftir það fór hann óðum að vaxa og kraftar hans mjög að aukast, svo að þegar hann var seytján ára, var hann orðinn 6 fet og 4 þuml. á hæð, og það var ekki sterkari unglingur til í öllu því bygðarlagi. Einkum hefir verið gjört orð á því hver afreksmaður hann var með skógaröxina. Hann hjó henni dýpra í tré í hverju höggi en aðrir, og klauf fleiri girðinga-skíði á dag en nokkur annar í bygðinni. Af þessu mun hann hafa fengið auknefnið ,,skíðkljúfarinn frá Illinois"-ríki (The rail splitter from Illinois), þótt hann sjaldan klyfi skíði eftir að hann fluttist þangað, því þar voru mest grassléttur, en ekki eintómir skógar eins og í Indíana-ríki.

Á hinni stuttu skólagöngu sinni í Kentucky-ríki lærði Abraham — eða ,,Abe", eins og hann var vanalega kallaður — lítið meira en að þekkja stafina, en eftir að stjúpmóðir hans kom til sögunnar, lét hún hann og systir hans ganga á alþýðuskóla í nágrenninu um tíma, ásamt sínum eigin börnum. Þó mun öll skólaganga hans ekki hafa numið heilu ári til samans, og mátti hann því í rauninni heita algjörlega sjálfmentaður maður. En hann notaði þenna stutta tíma vel, og þótti skara fram úr öðrum 4
börnum, einkum í stafsetningu og skrift. Það vaknaði

brátt hjá honum óslökkvandi þorsti eftir þekkingu, og varði hann þá öllum frístundum sínum í bókalestur. En bækur voru færri á þeim dögum í hinum nýbygðu héruðum en nú á tímum, og voru helztu bækurnar, er Abraham las, reikningsbók, biblían, Esóps dæmisögur, Robinson Crusoe, æfisaga Washingtons eftir Weems, Pílagrímsförin (eftir Milton) og saga Bandaríkjanna. Af því pilturinn Abraham Lincoln í æsku sinni (á skeiðinu frá 10—17 ára) stundum húkti út í skógi eða sat á skíðgarði svo klukkutímum skifti með bók, ályktuðu sumir grunnhygnir menn að hann væri latur. En það var þekkingarþorstinn, sem stundum kom honum til að forsóma verk sitt vegna bókarinnar. Á kvöldin lá hann á kviðnum fyrir framan eldstæðið, og með því hann hafði hvorki pappír né spjald, skrifaði hann og reiknaði með viðarkoli á trérekuna, á borðastúfa, eða á flöt á trjádrumbum, sem hann tegldi stafina af þegar hann vildi aftur rita á þá.

Abraham Lincoln hefir verið lýst svo þegar hann var 17 ára, að hann hafi verið 6 fet og 4 þuml. á hæð, óvenjulega útlimalangur, með stórar hendur og fætur, og óliðlega vaxinn í heild sinni; húðin hafi verið þur og gulleit, hárið svart og sítt, andlitið magurt, augun grá og þunglyndisleg, í djúpum tóptum, kynnbeinin há, nefið fremur klumbulegt, munnurinn nokkuð stór — í stuttu máli, maðurinn hafi verið ólánlegur á velli og ófríður. En þrátt fyrir þetta unnu menn honum alment og virtu hann sakir gáfna hans, góðlyndis, drengskapar, ráðvendni og annara mannkosta.

Um þessar mundir, eða þegar Abraham Lincoln var 17 ára, gekk hann 9 mílur á dag á skóla um tíma, en á kvöldin las hann lagasafn Indiana-ríkis. Hann las þetta safn svo vel, að hann kunni það hér um bil utanbókar, enda hafði hann ágætt minni. Mun þessi lagalestur fyrst

hafa kveikt hjá honum löngun til að nema lögfræði. Í nefndu lagasafni var prentuð yfirlýsing Bandaríkjanna um, að þau væri óháð þjóðveldi (the Declaration of Independence), grundvallarlög Bandaríkjanna, og reglugjörðin frá 1787. Alt þetta var sem stimplað í hjarta hins unga manns, og enginn skildi þessa dýrmætu gjörninga og stjórnarfar lands síns betur en hann. — Hann var samt mannblendinn, sótti kappstöfunar-fundi, veðreiða-mót og fleiri þessháttar samkomur. Eins og áður hefir verið sagt, var hann afar-sterkur, — það er sagt að hann hafi tvítugur lyft 1000 pd. þunga—og skakkaði oft leikinn þegar í illindi lenti, hjálpaði þeim sem var minni máttar og lúbarði ribbaldana, svo þeir báru virðingu fyrir honum eins og aðrir. Hann fékk smátt og smátt orð á sig fyrir að segja allskonar sögur og skrítlur manna bezt og fyrir skarpa dómgreind, svo hann fór að verða nokkurskonar leiðtogi í bygðarlaginu. — Hann sótti öll dómþing í nágrenninu, og gekk stundum tugi mílna til að vera viðstaddur þegar mikilsverð mál voru prófuð og dæmd. Hann samdi ritgjörð um stjórnarfar Bandaríkjanna og aðra um hófsemi. Hann hélt ræður, spjallaði við menn um allskonar efni, ræddi almenn áhugamál, sem þá voru uppi, spaugaði við menn og gjörði alla að vinum sínum— en það fór að minka um vinnubrögðin. Abraham Lincoln var áður en hann var tvítugur orðinn amerískur pólitíkus, þótt hann ekki vissi af því.

Árið 1830, þegar Abraham Lincoln var rétt orðinn myndugur (21 árs).flutti faðir hans burt úr Indiana norður í Illinois-ríki; þar var þá ágætt land að fá fyrir lágt verð. Þetta var í marz mánuði, þegar vegir voru upp á það versta, svo ferðalagið varaði í hálfan mánuð. Abraham var hægri hönd föður síns á ferðinni og keyrði uxana, sem beitt var fyrir vagninn. Þannig gjörði hann innreið

sína í Illinois-ríkið, sem hann hóf sig upp í frá einni virðing til annarar, unns hann var kjörinn í æðsta embættið, er lýðveldið á til. — Lincoln-fjölskyldan tók sér bólfestu á skógi vaxinni hæð við Sagamon-ána, um 5 mílur frá Decatur-bæ í Macon-county. Abraham hjálpaði föður sínum til að byggja sér bjálkahús á nýbýlinu, og hann og frændi hans, John Hanks, sem kom með þeim frá Indiana, plægðu 15 ekrur af grassléttunni á hinni nýju bújörð, og klufu nóg skíði til að girða með blettinn. Sýnishorn af þessum skíðum voru borin inn í fundarsalinn þar sem Abraham Lincoln var tilnefndur sem forseta-efni 30 árum síðar.

Að þessu loknu fór Abraham Lincoln burt frá föður sínum og fór að eiga með sig sjálfur. Hann hafði ekkert með sér úr föðurgarði utan föt sín — það var enginn dýrindis-klæðnaður — og skógaröxi sína. Hann hafði ofan af fyrir sér sem bezt hann gat um veturinn, er var hinn harðasti í manna minnum þar í ríkinu, en um vorið vistaðist hann hjá manni, er hét Offut, til að fara með honum á einu fari því er flatbátar nefnast — hlöðnu bændavöru — ofan eftir Missisippi-fljóti, alla leið til New Orleans-borgar við mynni þess. Lincoln hafði farið samskyns ferð einu sinni áður frá Indiana og þótt duga vel. Kaupið var $8 á mánuði. Þessar ferðir voru hin fyrstu tækifæri, er hann hafði fengið til að sjá dálítið af veröldinni fyrir utan heimkynni sitt. Í síðari ferðinni sá hann þræla selda við opinbert uppboð í New Orleans. Honum ofbauð sú sjón svo, að hann sagði við kumpána sína : ,,Í guðs bænum látum oss fara burt frá þessu, piltar. Ef eg nokkurn tíma fæ tækifæri til að berja á þessu skrímsli (þrælaverzluninni), þá skal eg greiða því þung högg". Viðburðir ,,þrælastríðsins" sýna hvernig hann uppfylti þetta heit sitt.

Þetta sama sumar gerðist Lincoln verzlunarþjónn í New Salem, þorpi á bakka Sagamon-árinnar, hjá nefndum Offut. Ráðvendni hans og samvizkusemi við þann starfa hefir verið viðbrugðið. Til dæmis er sagt að hann hafi eitt sinn gengið þrjár mílur í myrkri, eftir að búðinni var lokað, til að færa manni nokkrum 6 cents, er hann hafði reiknað af honum í viðskiftum sama daginn.

Lincoln komst í svo mikið álit í New Salem, að þegar hinn litli Black Hawk Indíána-ófriður hófst, vorið 1831, þá var hann kjörinn foringi fyrir sjálfboðaliðinu úr því bygðarlagi. Eftir að ófriðnum lauk, — Lincolns-hersveitin fekk aldrei tækifæri til að berjast — bauð hann sig fram sem þingmannsefni í neðri deild Illinois-þingsins, en náði ekki kosningu, og var það hið eina skifti á æfi hans, sem honum var hafnað þegar hann bauð sig fram til kosningar. —Skömmu síðar keypti hann helming í verzlun nokkurri í New Salem, en félagi hans var ónytjungur, og verzlunin fór á höfuðið. Lincoln tók upp á sig alla skuldasúpuna og borgaði hvert cent með tímanum, en þetta hélt honum í peninga-kröggum í mörg ár á eftir. — Lincoln sjálfur var ekki góður kaupmaður, því um sama leyti útvegaði hann sér lögfræðisbækur Blackstone's og Chitty's og sat oft bæði nætur og daga við að lesa lögfræði. Eftir þetta var sama hvað hann hafði fyrir stafni, þá skildi hann ekki lögfræðisbækurnar við sig. — Landmælingamaðurinn fyrir Sagamon-county þurfti að fá sér aðstoðarmann, og bauð Lincoln þá stöðu. Lincoln kunni ekkert að mælingum, en á 6 vikum lærði hann svo mikið af bókum, að hann var starfinu vaxinn. Uppdrættir, er hann gjörði yfir mælingar sínar, eru enn til, og eru fyrirmynd hvað vandvirkni og glöggleik snertir.

Árið 1834 bauð Lincoln sig fram í annað sinn til þingmennsku í neðri deild Illinois-þingsins og náði kosn-

ingu. Hann var þá að eins 25 ára. Og svo fátækur var hann, að hann varð að fá lánaða peninga til að geta keypt sæmileg klæði til þingfarar. — Rétt á eftir varð hann fyrir þeirri sorg að heitmey hans, er hann unni mjög, dó, og tók hann þenna missi svo nærri sér, að það lá við að hann gengi af vitinu. Er sagt, að hann hafi jafnan verið þunglyndari upp frá því.

Það er ekki hægt að segja með sanni, að Lincoln reyndist neinn sérlegur garpur sem löggjafi á Illinois-þinginu í byrjun, enda hafði hann hugann mest við lögfræðis-nám sitt. Það virðist sem hann hafi ekki viljað nota neina tilsögn hjá öðrum, heldur lært eingöngu af bókum. Sjálfstraust, óvenjuleg ástundun, afbragðs skilningur og minni virðist hafa verið sterk einkenni hans. Eftir að hafa þannig lesið lög í mörg ár, tók hann próf og fekk lögfræðings-leyfi fyrir Illinois-ríkið 1837, en 3. des. 1839 fekk hann leyfi til að flytja mál fyrir réttum ríkjasambandsins — sama dag og Stephen A. Douglas, sem Lincoln ætíð átti í brösum við eftir það. Þetta sama ár var Springfield — þá smábær með hérumbil 1500 íbúum — gjörð að stjórnarsetri fyrir Illinois, og flutti Lincoln sig þá þangað, því þar gat hann þægilega rekið bæði lögmannsstarf sitt og sinnt störfum sínum sem þingmaður. Hann fekk brátt allmikla aðsókn sem lögmaður, og tók þá í félag við sig vin sinn frá Black Hawk Indiana-ófriðnum, majór John T. Stuart. Eftir ósk Lincolns var þessi félagi hans talinn fyrir, þ. e. félagið nefndist Stuart & Lincoln, og sýnir þetta, eins og margt annað, hve göfuglyndur Lincoln var. Þessi félagsskapur varaði samt ekki nema þangað til í apríl 1841. Þá gekk Lincoln í félag við fyrrum dómara Stephen T. Logan, en sá félagsskapur varaði heldur ekki lengi. Þar á eftir gekk Lincoln í félag við bezta vin sinn, William H. Herndon, og varaði sá félags-

skapur þangað til Lincoln var kosinn forseti Bandaríkjanna, nær 20 árum síðar. — Það eru margar sögur til um Lincoln sem lögmann. Hann þótti mjög skarpvitur lögmaður, orðheppinn og áhrifamikill málaflutningsmaður. En einkum hefir verið í minnum haft hve réttlætis-tilfinning hans var næm og hvað hann var göfuglyndur. Hann t. d notaði sér aldrei afglöp mótstöðumanna sinna fyrir rétti. Sérílagi hefir þó verið gjört orð á hvað Lincoln var hjartagóður. Hann tók að sér mál lítilmagnans og setti ýmist lítið eða ekkert fyrir. Það kvað svo ramt að því, hvað hann setti lágt fyrir starf sitt sem lögmaður, að aðrir lögfræðingar kvörtuðu yfir því og dómari einn setti ofan í við Lincoln fyrir það. Hann var því jafnan fátækur. Allar eignir hans voru ekki nema 7 þúsund dollara virði þegar hann var kosinn forseti Bandaríkjanna, eftir meira en 20 ára lögmensku-starf.

Um 1839 kyntist Abraham Líncoln Mary Todd, dóttur fyrrum þingmanns Roberts S. Todds í Lexington, Kentucky-ríki. Hún var systir konu N. W. Edwards í Springfield, sem var frægur lögmaður. Hún var mjög myndarleg stúlka, vel mentuð, gáfuð og fyndin, og átti því marga biðla, þar á meðal Stephen A. Douglas, sem áður er nefndur. Lincoln hét henni eiginorði, en svo ætlaði hann að hætta við að giftast henni, sökum þess að honum fanst,að hann elskaði hana ekki nógu mikið. Hann varð hálf sturlaður út af þessu um tíma, en samt lagaðist þetta svo, að Lincoln giftist Mary Todd 4. nóv. 1842. Þau eignuðust son, sem nú er forseti eins ríkasta félagsins í Ameríku, nefnilega Pulman-svefnvagna-félagsins í Illinois-ríki.

Abraham Lincoln var ætíð frjálslyndur í pólitík, og þess vegna fylgdi hann að málum hinum svonefnda ,,Whig‘‘-flokk og varð brátt leiðtogi hans í Illinois-ríki.

Það kom strax í ljós á meðan Lincoln var meðlimur Illinois-þingsins, að hann var eindregið á móti að þrælahald yrði lögleitt í nýjum ríkjum, er mynduð yrðu úr hinum vestlægu lendum (territories). Þetta spursmál var rætt af mesta kappi og með hita um gjörvalt landið (Bandaríkin), og i desember 1839 skoraði Lincoln á mótstöðuflokkinn, Demokrata, að kappræða málið á sameiginlegum fundi. Þar mætti áður nefndur Stephen A. Douglas og þrír aðrir Demokratar fyrir hönd flokks síns Abraham Lincoln með þremur ræðugörpum úr „Whig"-flokknum. Eins og nærri má geta, var bardaginn aðallega milli Lincolns og Douglasar, en þótt hinn síðarnefndi væri fluggáfaður lögfræðingur og mælskumaður, bar Lincoln stóran sigur úr býtum og varð frægur um alt landið. Kappræða þessi er þann dag í dag nefnd „hin mikla kappræða".

Ritgjörð þessi er nú í rauninni orðin eins löng og hún átti að vera, og samt eru hin merkustu atriði í sögu Lincolns ótalin—að því leyti, að minsta kosti, er sögu Bandaríkjanna snertir. Eg verð því að fara fljótt yfir sögu það sem eftir er—að eins drepa á fáein helztu atriðin.

Árið 1846 bauð Lincoln sig fram sem þingmannsefni í n.d. congress Bandaríkjanna,og náði kosningu með 1511 atkv. fram yfir gagnsækjanda sinn. Hann tók þannig sæti í 30. congressinum, og var hinn eini „Whig"-þingmaður frá Illinois. Samtíða honum var þar Stephen A. Douglas sem senator frá Illinois. Lincoln neitaði að gefa kost á sér til endurkosningar í congressinn 1850. Í nóv. 1854 var Lincoln aftur kosinn til Illinois-þingsins þrátt fyrir mótmæli sín gegn því.

Á fulltrúa-fundi í Bloomington 1856, var Republikana-flokkurinn myndaður fyrir Illinois-ríkið (hann var eiginlega framhald af „Whig"-flokknum),og hélt Lincoln þar ræðu sem margir telja merkasta eða mesta af öllum

hinum mörgu ræðum hans. Fram að þessum tíma hafði Lincoln einungis rætt þrælahalds-spursmálið á grundvelli pólitískrar stefnu, en ekki sem spursmál um hvað rétt væri eða rangt. En nú var sem hann væri orðinn endurfæddur, hefði verið skírður eldlegri skírn til sannleika og réttlætis. Eldurinn, sem hafði verið innibyrgður hjá honum í mörg ár, braust nú út með ómótstæðilegu afli, og upp frá þeim degi átti þrælahald engan skæðari óvin.

Árið 1858 tilnefndu Republikanar í Illinois Lincoln af sínum flokki til að sækja um senators-sæti í sambandsþinginu gegn Stephen A. Douglas. Þeir héldu sameiginlega fundi um þvert og endilangt ríkið, og varði Douglas þrælahald, en Lincoln sýndi fram á að það væri hróplegt ranglæti. Er sagt, að Douglas fengi hina verstu útreið á öllum fundunum í orðaviðskiftum við Lincoln, en þrátt fyrir það varð Douglas ofan á við kosninguna. Samt er enginn vafi á, að rimma þessi var undirbúningur til sigursins, sem Lincoln vann við forsetakosningarnar 2 árum síðar. Eftir þessa viðureign þeirra var farið að minnast á Lincoln sem forsetaefni, og í maí 1860 náði hann tilnefningu á allsherjar flokksþingi Republikana í Chicago. Í vali voru í þetta sinn sem forseta-efni: Abraham Lincoln, af hálfu Republikana; Stephen A. Douglas og Breckenridge, af hálfu Demokrata, sem sjálfir höfðu klofnað á flokksþingi útaf þrælahalds-málinu; og Bell (áður Whig) af hálfu flokks er nefndi sig „Constitutional Union"-flokk og sem samanstóð af „Whig"-um af gamla skólanum og öðrum utanveltu-mönnum. Beinu kosningarnar, er fóru fram 6. nóv. 1860, féllu þannig, að Lincoln fekk 1,857,601 atkv; Douglas 1,291,574 atkv.; Breckenridge 850,082 atkv.; og Bell 646,124 atkv. Lincoln vantaði þannig 930,170 atkv. til að hafa meiri hluta allra atkvæða, sem greidd voru, en þegar hin tvöfalda kosning

fór fram, varð alt annað upp á teningnum. Þá fekk Lincoln 180 atkv.; Breckenridge 72; Bell 30; en Douglas að eins 12 atkv. —Þegar víst var orðið, að Lincoln hafði náð kosningu sem forseti Bandaríkjanna, fóru Suðurríkin að undirbúa sig að rífa sig út úr sambandinu, því þau væntu hins versta af honum hvað þrælahaldið snerti, og þegar Lincoln tók við forseta-embættinu 4. marz 1861, voru Suðurríkin komin í algjörða uppreist, höfðu myndað sérstakt ríkjasamband, kosið Jefferson Davis sér fyrir forseta og tekið undir sig allar eignir Bandaríkjanna innan takmarka sinna. Lincoln var því nauðugur einn kostur að senda her á hendur Suðurríkjunum, og er saga hans næstu 4 ár eiginlega saga hins mikla borgarastríðs, sem fleiri miljónir manna tóku þátt í og hundruð þúsunda manna féllu í.

Það má nærri geta hvílíka sálarangist maður eins og Lincoln tók út á meðan þetta voðalega stríð stóð yfir. En samt var hann einbeittur í að viðhalda hinu upprunalega ríkjasambandi, og tókst það að lokum með sinni frábæru þolinmæði, stöðuglyndi og vitsmunum.

Hinn 2. sept. 1862 gaf Lincoln út hið merkasta skjal, er hann nokkur tíma undirskrifaði, nefnil. yfirlýsinguna um, að eftir 1. jan. 1863 skyldi allir þrælar í ríkjum þeim og ríkjapörtum, sem voru í uppreist, vera frjálsir.

Lincoln virðist hafa borið gott skyn á hæfilegleika annara. Á það bendir hverja menn hann tók í stjórn sína og hvaða menn hann setti yfir herinn. Hann sá að Ulysses S. Grant herforingi (sem síðar varð forseti Bandaríkjanna) var maðurinn, er mundi sigrast á uppreistarhernum, og setti hann því yfir allan her Bandaríkjanna í marz 1864. Í apríl næsta ár (1865) var ófriðnum lokið, ríkjasambandið frelsað frá eyðileggingu, og hið viðbjóðslega þrælahald afnumið í þessari heimsálfu.

Haustið fyrir, 1864, hafði Lincoln verið endurkosinn sem forseti Bandaríkjanna, og,eins og þegar er frá skýrt, var ófriðnum lokið í öndverðum apríl 1865, eða tæpum hálfum öðrum mánuði eftir að hið nýja fjögra ára kjörtímabil hans byrjaði. Nú var nafn hans, sem á meðan ófriðurinn stóð yfir oft varð fyrir óverðskulduðu lasti meðal hinna svokölluðu vina — hvað þá óvinanna —, á hvers mans vörum og hann var eins mikið lofaður eins og hann hafði verið lastaður. Nú leit út fyrir að hamingjan mundi brosa við honum eftir allar raunirnar og angistina, sem hann hafði gengið í gegnum á meðan borgarastríðið stóð yfir. En örlög hans voru alt önnur, en menn bjuggust við. Hann var skotinn til bana þar sem hann sat í klefa á leikhúsi ásamt konu sinni og nokkurum vinum kvöldið 14. apríl 1865. Sá, sem ódáðaverkið vann, hét John Wilkes Booth. Hann var leikari og ofstækisfullur þrælahaldsmaður. Hann hrópaði, um leið og hann stökk úr klefanum ofan á leiksviðið, að nú væri Suðurríkjanna hefnt. Booth náðist brátt, þótt hann kæmist undan í fyrstu, og var tekinn af lífi ásamt nokkrum öðrum, er voru í vitorði með honum.

Það er engin vafi á, að Bandaríkja-þjóðin elskar og virðir Lincoln meira en nokkurn af hinum mörgu ágætismönnum, sem verið hafa forsetar hennar, og ber ýmislegt til þess, sem of langt yrði að fara út í. En ein aðal-orsökin er að mínu áliti sú, að hann var einhvern veginn nær hjartarótum þjóðarinnar en nokkur forseti hennar hefir verið. Hann var að mörgu leyti ímynd þjóðar sinnar og það er sem þjóðin þekki sjálfa sig í honum enn þann dag í dag, þrátt fyrir ýmsar breytingar á hag hennar og hugsunarhætti.



# ÍSLENZKT HELJARMENNI.

(Eftir J. Magnus Bjarnason).

---

EG ætla að segja ykkur dálitla sögu frá Nýja Skotlandi. Hún er samt ekkert glæsileg — ekkert ,,spennandi" æfintýri — og hefir engar meistaralegar lýsingar, eða skáldleg tilþrif. En hún sýnir það, að enn þá eymir eftir af fornízlenzku þreki, hugrekki og heljarkappi, sem öllu bauð byrgin — jafnvel höfuðskepnunum sjálfum, og sjálfum dauðanum. Því saga þessi er ofurlítið atvik, eða atriði, úr æfisögu íslenzks manns, sem orðsins fylstu merkingu var sannkallaður jötunn, heljarmenni og tröll að burðum. — Og hann er dáinn fyrir að eins örfáum árum.

Hann hét Hrómundur, þetta íslenzka heljarmenni, Hrómundur Þórðarson. Hann var ættaður af Austfjörðum á Íslandi, og fluttist til Ameríku árið 1875 með heilsulausa konu og sex börn — öll í ómegð — og settist að á austurströnd Nýja Skotlands. Hann var þá kominn hátt á fimtugs aldur.

Þó eg sæi hann sjaldan, þá man eg þó betur eftir honum en nokkurum öðrum mér vandalausum manni, sem eg kyntist í æsku. — Og nú vil eg gefa ykkur ofurlitla lýsingu af honum :

Hann sýndist ekki svo mjög hár, þegar hann stóð einhversstaðar einn sér, og þó var hann rúmar þrár álnir á hæð. En gildleikinn dró úr hæðinni — svo þéttur var hann um herðar og bol. Eg sá hann í hópi háskoskra manna, sem voru hærri en hann — en enginn þeirra var eins gildvaxinn og kraftalegur. Eg sá hann líka með írskum mönnum, sem sýndust vera þreknari en hann, en það var af því, að þeir voru feitari og ekki eins sívalvaxnir. Og hann var jafnan holdskarpur maður. — Eg hefi séð meiri herðar en hans, en aldrei breiðara bak, og engan þykk ari undir hönd né bringubreiðari. Hálsinn var ákaflega digur, og fyrir þá sök sýndust herðarnar ekki eins breiðar. Öll liðamót hans voru mikil, og vöðvarnir á handleggjum hans og fótleggjum framúrskarandi stórir, þéttir og harðir eins og grjót. Hendur hans voru ekki að sama skapi stórar; en þykkar voru þær og sterklegar, og með einlægum smá örum og sprungum, sem sýndu að þær höfðu ekki æfinlega verið aðgjörðarlausar um dagana.

Í sjón var hann alt annað en fríður. Ennið var látt með ótal hrukkum; augnabrýrnar loðnar, þungar og miklar — og næstum ægilegar — kjálkarnir langir og sterklegir; nefið fremur þunt og hátt og ekki vel lagað. En augun lýstu því, að hann var af hreinu norrænu bergi brotinn. Þau voru blá — himinblá — hörð, köld og nístandi. Það er sagt, að karlmenn, sem hafi slík augu og hans, séu yfirleitt skylduræknir synir, góðir eiginmenn og beztu feður, vinir vina sinna og trygglyndir; en á hinn bóginn jafnan óþjálir og þungir í skapi, þegar eitthvað er gjört á hluta þeirra, og kunna þeir þá lítt að vægja. — Hrómundur hafði ljóst hár, ofurlítið hrokkið í hnakkann. Á vöngum og höku hafði hann mikið, ljóst og ósélegt skegg, sem sjaldan mun hafa verið greitt, og lítil rækt

við lögð. Og þegar hann þagði, kreisti hann saman varirnar; og er sagt, að það sé óbrigðull vottur um þagmælsku og staðfestu.

Hann var enginn verulegur vitmaður, enginn bókamaður, og því síður lærður maður. En hann sýndi oft að hann hafði góðan forða af þeim hyggindum, sem í hag koma, og hann var furðanlega útsjónargóður og glöggur á ýmislegt.

Þannig er þá mynd Hrómundar í fám dráttum. Og þegar eg var drengur og las fornsögurnar íslenzku, þá hugsaði eg oft til hans. Mér fanst hann ekki vera líkur Gunnari, né Gretti, né Skarphéðni; en eg hugsaði mér Egil Skallagrímsson líkan honum, ekki vegna vitsins og framtakseminnar hjá Agli, heldur vegna orkunnar, skapsins og hamremminnar, — í því áttu þeir sam-merkt. — Eg sá hann aldrei öðruvísi klæddan, en í rauðum, stagbættum strigafötum, sem fóru honum alt annað en vel, því buxurnar voru of stuttar og stakkurinn of þröngur. En hann var líka langt frá því að vera það, sem Ameríkumenn kalla ,,dude''.

Hrómundur settist ekki að í íslenzku nýlendunni í Nýja Skotlandi, heldur tók hann sér bólfestu á lítilli og afarhróstrugri eyju, sem liggur fyrir utan vík þá, er *Spry Bay* heitir. Eyja þessi er kölluð ,,*Sailors' Woe*'' (sjómanna böl) og er tæpar hundrað ekrur á stærð. Að vestan er hún lág og sendin, en að austan rísa himinháir klettar. Atlantshafið lemur þessa kletta árið um kring; og sjórinn er þar varla aldrei kyr. — Þar er sífelt brimhljóð dag og nótt. Og mörg eru þau skip, sem farist hafa við þá kletta og á skerjunum fyrir framan. — Þess vegna er eyjan kölluð ,,*Sailors' Woe*''.

Þannig var sá bústaður, sem Hrómundur valdi sér — einverulegur, eyðilegur og hrikalegur, eins og hann sjáfur.

Eyjan var alt of hrjóstrug til þess, að Hrómundur gæti framfleytt sér og fólki sínu á landbúnaði. Hún gaf honum ,,steina fyrir brauð og höggorma fyrir fisk'', ef svo mætti að orði komast. Þó hafði hann þar eina kú og fáeinar kindur. En til þess að geta lifað þar, varð hann að sækja sjóinn — og sækja hann fast. Hann sótti jafnan á yztu mið á stóru tveggjamanna fari, og reri einn, og reri mikinn, eins þeir Ingjaldur og Þorgeir í Vík. Og hefði mátt kveða um hann ein Ibsen um Þorgeir:

,,Einn kynlegur halur hærugrár
Í hólmanum yzta bjó,
Mjög hversdagsgæfur, en heldur fár,
Og hafðist við mest á sjó;
En vissi' á ilt, varð ygld hans brá,
Svo ógnaði sjónar-brík;
Menn kváðu' hann tryllingsköst þau fá,
Og kljást ei nokkur vildi þá
Við Þorgeirr, sem var í Vík''.

Svona hefði mátt kveða um Hrómund Þórðarson.

Hrómundur flutti fisk sinn til kauptúnsins í Spray Bay og seldi hann þar. Þar þótti hann maður með mönnum, og öllum var vel til hans. Þar bjuggu Írar og Skotar, og þóttu afburðamenn miklir og sjógarpar hinir mestu. En fæstir þeirra hefðu kært sig um að reyna þol til þrautar við gamla Hrómund. Og hinum yngri mönnum þóttu ómjúk handtök hans, þegar þeir tuskuðust við hann og þó í gamni væri. — Þar bjuggu þeir O'Hara-bræður, O'Brians-frændur, McIsaacs-menn og Reids-menn; og þar bjó tröllið hann Donald Gaskell, einhver sá hraustasti maður í Austur-Canada á sinni tíð. Karl sá var ekki vanur að lofa menn fyrir karlmensku, nema eitthvað kvæði að þeim. En hann sagði það jafnan um Hrómund, að hann væri ,,maður'', og það var mikið sagt, því Don-

ald kallaði ekki alt *menn*. Flestir menn, þó vel færir væru, voru í hans augum *drengir* eða jafnvel *vesalingar*.

,,Hann er *maður*, sá gamli Íslendingur'', sagði sá jötunn — hann Donald Gaskell; ,,hann er maður drengir mínir, hann *er* maður!''

En nú er að byrja á því atriði, sem eg hét að segja frá. Það var þrekvirki, eða öllu heldur ofdirfskubragð, sem er áreiðanlega eins dæmi í sögu Vestur-Íslendinga — ofdirfsku-tiltæki, sem enginn hefði vogað að gjöra, nema sá, er hefir alveg óblandað norrænt blóð í æðum sínum, og öll einkenni víkingsins sameinuð í réttum hlutföllum. — Eg segi nú söguna, eins og eg hefi heyrt hana, og eins og hún er sögð — sem nokkurs konar þjóðsaga — þar austur við sjóinn.

Það var einn dag um haustið 1882, að kona Hrómundar varð veik. Um morguninn þann sama dag gekk að ofsaveður af norðaustri. Slík ofsaveður eru algeng á haustin í Nýja Skotlandi og verða mörgum skipum að tjóni við strendur þess lands.

Eftir því, sem á daginn leið, þyngdi konunni meir og meir; og jafnframt versnaði veðrið. Atlantshafið skall með öllum þunga sínum á ströndina —sjórinn rauk— hvítfyssandi grunnsævis-öldurnar hófust við himinn, og brimið sauð og vall við hvert andnes og sker. — Svo leið dagur að kvöldi. Alt af stöðugt þyngdi konunni — og veðrið ólmaðist og sjórinn rauk.

Gamla Hrómundi varð það nú ljóst, að brýn nauðsýn var að sækja lækni — og það tafarlaust. Hann vissi að í þorpinu í Spry Bay var ungur og duglegur læknir, Patrik að nafni. En til Spry Bay voru fullar fimm mílur enskar, og ekki árennilegt að sækja þangað í öðrum eins sjó og öðru eins ofsaveðri. Það var hreint ekki viðlit að

